Lifi marx-lenínisminn - kenningar MaóTsetungs




## FRÆÐSLU-FUNDIR EIK(m-l) Baráttan gegn erlendri ásælni

EIK(m-l) hafa nú haldið þrjá fræðslufundi, um ástandið í Afríku, endurreisn stéttarfélaganna og sósíalismann í Kína. Hafa fundir þessir tekist vel. EIK(m-l) hvetja fólk til að sækja þessa fundi ennþá betur en hingað til. Fundarröð EIK(m-l) er eini vísir umræðuvettvangs fyrir róttækt fólk.

Næsti fundur í fundarröðinni er um baráttuna gegn erlendri ásælni á Íslandi og vörn sjálfræðis landsins. Þetta efni er mikið til umræðu núna. Hver er stefna kommúnista?

Fundurinn er í Prentarahúsinu, Hverfisgötu 21, Reykjavík, laugardaginn 14.jan. kl.15.oo.

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) 16.Tbl. 15.des. 1977-17.jan.1978 100kr.


Unglingar eru oft stór hluti af vinnuafli frystihúsanna,en þeir eru líka sá lang lægst launaði.

## Unglingar í frystihúsum:

# Fullt félagsgjald engin réttindi

Verkalýðsblaðið kynnti sér kaup og kjör unglinga undir 16 ára aldri sem eru starfandi í frystihúsum í Reykjavík. Kom þá m.a. í ljós að stéttarfélögin Framsókn og Dagsbrún semja um kaup og kjör fyrir unglingana, en þeir njóta engra réttinda í þessum félögum. Í Verkakvennafélaginu Framsókn borga þeir fullt gjald, en njóta engra réttinda í félaginu. Unglingarnir eru látnir í flest venjuleg frystihúsastörf. Hins vegar er bannað með reglugerð að unglingar vinni á vélum og tækjum. Kaup unglinganna er miklu lægra en annarra, þrátt fyrir það að þeir vinni nákvæmlega sömu störf. Launin eru:

14 ára....480 kr. pr. klst. dv.
15 ára....544 kr. pr. klst. dv.

Frh. á bls.6

## Verkamannasambandsþingið:

# „Óánægjuraddir" en ekki skipuleg andstaða

Þing Verkamannasambands Íslands var haldið fyrstu helgi í desember. Það markar hreint engin tímamót, eins og Guðmundur J. Guðmundsson vill vera láta, enda áttu víst fæstir von á því. Svikaforysta ASÍ, með Guðmund J. og Eðvarð Sigurðsson í broddi fylkingar söng sinn gamla söng um "varnarbaráttu" verkalýðsins og lofsöng svikasamningana frá því í vor. Ýmsir urðu til að gagnrýna forystuna fyrir undanslátt, en sú andstaða var algerlega óskipulögð og lítt undirbyggð. Hún var því afar máttlaus. Þrátt fyrir tiltölulega orðhvatar yfirlýsingar þingsins um "harða baráttu" ef kjarasamningarnir verði skertir, þá bendir ekkert til þess að "hörku" verði beitt nú fremur en endra nær (hvergi kom fram á þinginu

Frh. á bls.3

## KLOFNINGUR Í „KFÍ/ML"

"Kommúnistaflokkur Íslands/marxistar-lenínistar" er enn einu sinni klofinn, en snemma í desember yfirgáfu 3 félagar "flokks"hróið og í viðtali sem birt er á baksíðu, lýsa þeir aðdragandanum að klofningnum og leggja mat á KFÍ-hópinn. Þeir lýsa jafnframt yfir að gagnrýni EIK(m-l) á KSML/"KFÍ/ML" frá upphafi hafi í öllum meginatriðum sýnt sig vera réttmæt og lýsa fullum stuðningi við baráttu EIK(m-l).

## HVAÐ ERU JÓL?

"Jól eru hvíldartími þeirra manna, sem aldrei þurfa að vinna sig þreytta, - þá eru haldnar stærstu átveislur þeirra, sem aldrei eru svangir. Það er hátíðin, þegar mest er um ljósadýrð í skrautlegum sölum, - mest um glaðværar skemmtanir, - söng og hljóðfæraslátt, samkomuhald og drykkjuslark".

Þessi tilvitnun er úr grein um jólin eftir Gunnar Benediktsson, rithöfund, sem birt er í blaðinu á bls. 3.




## Við vorum tveir útlendingar á móti bónuskerfinu

Verkalýðsblaðið hitti að máli erlendan verkamann á Íslandi. Hann vill ekki að nafn hann verði birt, þar sem það gæti valdið fjölskyldu hans óþægindum. Hann starfar nú í verksmiðju á Reykjavíkursvæðinu. Í henni hefur nýlega verið sett á bónuskerfi, sem auka átti laun starfsmannanna verulega.

"Flestir eru óánægðir með bónusinn - þeir fóru að púla en fengu ekkert meira fé út úr því. Okkur var sagt að launin myndu hækka um 20-30 þúsund, eftir reynslu annars staðar, en við fengum ekki meira en svona 5-6 þúsund. Þetta bónuskerfi er bara til að stinga upp í mann - yfirmennirnir segja núna að það þýði ekkert að biðja um hærra kaup af því að við höfum fengið bónusinn".

Frh. á bls.6

**Söfnum milljón fyrir 1.mai giró 12200-9 sjá bls.2**





# LEIÐIN TIL SÓSÍALISMANS

Fyrir meira en 150 árum kom út Kommúnistaávarpið, þar sem reynsla og stefna ungrar verkalýðshreyfingar var dregin saman. Þar segir m.a.:

"Næsta markmið kommúnista er hið sama og allra annarra öreigalýðsflokka: að skipuleggja öreigalýðinn á stéttargrundvelli, steypa veldi borgarastéttarinnar og framkvæma pólitíska valdatöku öreigalýðsins".

Þessi orð eru jafngild nú á tímum, og enn frekar en áður þar eð auðvaldsskipulagið er að liðast í sundur á heimsmælikvarða og stór hluti mannkyns býr nú þegar við sósíalisma í Kína, Albaníu, Víet Nam og víðar.

## HVAÐ ER SÓSÍALISMI OG KOMMÚNISMI?

Þorri íslensks verkalýðs og annarrar alþýðu vill sjá völd vinnandi fólks í framkvæmd, útrýmingu arðránsins og síaukið jafnrétti. Lítill hluti telur sig sósíalista og vinnur að því að koma honum á. Gegn baráttu þessari stefna yfirstéttir allra landa haturs- og falsáróðri og gegn þessari baráttu er og stefnt þeim gerfisósíalisma sem krataflokkar á borð við Alþýðubandalagið á Íslandi básúna.

Sósíalisminn í stefnu marx-lenínískrar heimshreyfingar, sem EIK(m-l) eru hluti af, og í verkum frumkvöðlanna: Marx, Engels, Leníns, Stalíns og Mao Tsetungs, stendur af sér öll veður og nær æ meiri útbreiðslu meðal fjöldans. Hann verður þá að efnislegu valdi og knýr fram nýja þjóðfélagsskipan í æ fleiri löndum. Endalok auðvaldsskipulagsins eru óhjákvæmileg, en um leið háð meðvitaðri baráttu verkalýðs og alþýðu allra landa. Sósíalisminn í framkvæmd er fólginn í því að beita ríkisvaldi af nýrri gerð, ríkisvaldi verkalýðs í bandalagi við vinnandi millistéttir, til þess að útrýma einkaeign á framleiðslutækjum, öllu arðráni og misrétti. Taki alþýðan við eign, stjórnun og vinnu við framleiðsluna, losnar sá herfjötur sem efnahagslíf Íslands nú er hneppt í, því nú er alþýðan að mala gull fyrir aðra.

Sósíalisminn táknar líka nauðsynlega félagsþjónustu, afnám erlendra ítaka, fullt sjálfræði þjóðarinnar og sjálfbjarga land með mörgum helstu nauðsynjum. Aðeins þegar slíkt er fullgert, hverfa stéttir úr sögunni, ríkisvaldið gerist æ ónauðsynlegra og þjóðfélagsþróunin nær nýju stigi. Kommúnisminn er sú skipan þjóðfélaga sem byggist á samvirkni og því að menn vinni eftir getu og afli eftir þörfum.

Þetta þjóðfélag er ekki draumsýn fremur en tækniþjóðfélag auðvaldsins á 20. öld var það á tímum lénsveldis 19. aldar.

## EIN EÐA MARGAR LEIÐIR?

Er unnt að kjósa yfir sig sósíalisma í þingkosningum? Beitir auðstéttin ofbeldi? Grípur erlendur her inn í atburðarásina?

Allir sósíalistar, kommúnistar og baráttusinnar verða að svara þessum spurningum. Svör er að finna í ritum marx-lenínismans/kenningum Mao Tsetungs og í reynslu nærri tveggja alda gamallar verkalýðshreyfingar.

Alls staðar blasir sama sagan við:

1. Í sögunni hafa ný þjóðfélagskerfi nær undantekningarlaust ekki orðið til án átaka.
2. Yfirstéttin lætur ekki völdin af hendi sé hún beðin um það, hún snýr gjarnan baki við hinu borgaralega þingræði og beitir ofbeldi og fasisma gegn framsæknum stéttum.
3. Á Spáni, í Finnlandi, í Chile - alls staðar þar sem "friðsamleg leið til sósíalisma" hefur verið reynd, hefur slíkt endað með skelfingu.
4. Alþýða smáþjóðar getur sigrað stórveldi í alþýðustríði fyrir þjóðfrelsi, sé á landið ráðist af erlendum her.

Í ljósi þessa snúa kommúnistar og baráttusinnar og allur þorri verkalýðs fyrr en síðar baki við blekkingum "verkalýðsflokka" á borð við Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkinn. En hvorki alþýða né kommúnistar eru ofbeldismenn - framsækin öfl treysta því á og miða valdatöku verkalýðs við að stór hluti alþýðu sé virkur og vopnaður og eigi að auki stuðning alls þorra verkalýðsstéttarinnar og annarrar alþýðu, sem er mikill meirihluti þjóðarinnar.

Hver sá sem afneitar þessu, ofurselur alla ávinninga baráttunnar nú og síðar í hendur þeirra sem fyrirlíta vinnandi fólk og hafa beitt og munu beita hörðu.

# ÚR STARFINU

## Kynning

Helgina 12.-13.nóv. þágu EIK(m-l) boð Nemendafélags Menntaskólans að Laugarvatni um kynningu á samtökunum. Milli 50-60 manns sóttu fundinn. Stuttar framsöguræður voru fluttar um EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið, og umræður fóru fram um stefnu og starf EIK(m-l). Til marks um mikinn áhuga nema á stjórnmálum, og þá sérstaklega baráttustefnu marx-lenínismans, má nefna að áskrifendur Vbl. eru nú tæplega 25 talsins í skólunum að Laugarvatni.

## Leiðrétting

Mistök urðu við uppsetningu ályktunar sumarráðstefnu EIK (m-l) um alþjóðaástandið. Í kafla um 3.heiminn segir að þau geti og séu að "mynda samfylkingu fyrir nýrri efnahagsskipan í heiminum". Hér átti að standa: "sjálfstæðari efnahagsskipan".

Í IV.kafla um "Hvað ber að gera" segir í lið d að það sé alþýðan ein sem geti varið sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar. Hér átti að standa: sjálfræði.

Lesendur eru beðnir að merkja þessar leiðréttingar inná texta hinnar mikilvægu ályktunar. Vbl. gagnrýnir eigin mistök.

## Kveðja

Hinn 26.september sl. lagði stjórn Kristilegra Demókrata, CDU, fram tillögu í þýska þinginu um bann við starfsemi svokallaðra "K" flokka í V-Þýskalandi, á þeim forsendum að starf þeirra bryti í bága við stjórnarskrá landsins. Þessir flokkar eru KPD, KPDm-l, og KBW, er allir telja sig marx-lenínínska. CDU undanskilur í bannlista sínum DKP, endurskoðunarsinnaflokk landsins, sem er hundtryggur Moskvu.

Sem andsvar við aðgerðum CDU boðuðu flokkarnir 3 til mótmælaaðgerða í Bonn í byrjun október. Tóku þátt í þeim fyrir 20.000 manns undir höfuðvígorðunum: "Við látum ykkur ekki komast upp með að banna starfsemi okkar". Í ávörpum á útifundi að lokinni mikilli göngu sögðu fulltrúar flokkanna að ef þeir yrðu bannaðir mundu þeir halda starfsemi sinni áfram neðanjarðar. Aðgerðunum barst hundruð stuðningsyfirlýsinga víða að úr heiminum, og m.a. sendu EIK(m-l) fundinum kveðju.




Áskrifendasöfnunin gengur sæmilega. Við verðum að herða okkur mikið um jólin. Notum gjafakortin sem eru að koma út, en áskrift að Verkalýðsblaðinu er ákjósanleg jóla- og áramótagjöf. Spyrjum alla vini og kunningja um áskrift. Ef þú kaupir Verkalýðsblaðið nokkuð reglulega ættir þú að gerast áskrifandi því þá færðu blaðið sent heim strax þegar það kemur út.

Áskrifendur eru öryggi fyrir efnahag Verkalýðsblaðsins. Eflum áskriftasöfnunina! Förum langt yfir 100 nýja áskrifendur fyrir áramót!



200
150
100
50

ENN EINN SIGUR!
MEIRA EN 200 ÞÚSUND!

Við settum markið á 200 þúsund fyrir 15.des. Við höfum nú (10. des.) náð 210 þúsundum og er markinu því náð. Það er enginn vafi á því að EIK(m-l) og herjar marx-lenínísku hreyfingarinnar eru í mikilli sókn. Uppbygging prentsmiðju samtakanna og Verkalýðsblaðsins miðar vel áfram. Ennþá er eftir að vinna mikið starf í að gera allt svo úr garði að prentsmiðjan og Verkalýðsblaðið séu algerlega sjálfbjarga. Við blásum því til nýrrar sóknar og hefjum enn nýja söfnun fyrir prentsmiðjunni. Við setjum markið í þetta sinn á eina milljón fyrir 1.maí 1978. Okkur skal takast þetta og hvetjum þig til liðs við marx-lenínísku hreyfinguna og alla framsækna baráttu. Því - prentsmiðja og blað sem engu öðru þjónar en alþýðubaráttunni er ógnarstyrkur.

Gefið reglulega í prentsmiðjusöfnun. Sendið peninga á gíró 12200-9, merkt prentsöfnun eða greiðið reglulega til sölumanna Verkalýðsblaðsins.

# „Til baráttu" komið út

Út er komið annað tölublað námsmannablaðs EIK(m-l) - til baráttu. Blaði þessu er einkum ætlað að ná til skólafólks, en á þó erindi til allra. Í leiðara blaðsins segir m.a.:

"TIL BARÁTTU" hefur það meginhlutverk að samfylkja baráttusinnum innan námsmannahreyfingarinnar.

TIL BARÁTTU berst óvæginni baráttu gegn allri endurskoðunar- og hentistefnu meðal námsmanna, bæði fræðilega og með fjöldaáróðri. Þetta hlutverk markast af því að námsmönnum og menntamönnum stafar sérstök hætta af fúafeni frjálshyggjunnar."

Efni annars tölublaðs er um Samfylkingu í baráttu námsmanna. Grein um menntaskólanema og hvað beri að gera í baráttu þeirra. Þá er fjallað um 1.desember og stöðu dagsins sem baráttudags fyrir sjálfræði Íslands. Í TIL BARÁTTU eru lögð fram drög að greiningu á Sambandi íslenskra námsmanna erlendis - SÍNE - hvernig SÍNE er í stakkinn búið fyrir baráttu og um starf kommúnista í SÍNE.

Kaupið TIL BARÁTTU! Fæst í OKTÓBER-búðunum Óðinsgötu 30, Reykjavík og Hafnarstræti 79, Akureyri. Pantið blöð til sölu: TIL BARÁTTU, pósthólf 5186, Reykjavík.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK(m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(m-l) Akureyri: Hafnarstræti 79. Opið: þriðjudaga kl. 5-7 og föstudaga kl. 4-6.

EIK(m-l) Reykjavík: Óðinsgötu 30. Opið: miðvikudaga kl. 5-7, föstudaga kl.5-7 og laugardaga kl. 2-4. Sími 29212. Pósthólf 5186.

EIK(m-l) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskóllegiet, J-102, Dalslandsgade 8, 2300 Köbenhavn S.

EIK(m-l) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 694450, kl.5-8.30.

EIK(m-l) Uppsalir, Svíþjóð: Haraldur Arngrímsson, Flogstavägen 93 F, Uppsala.

.......

EIK(m-l) hefur gíróreikning nr. 12 200-9.

Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Október-forlagsins og EIK(ml).




Ég óska eftir að gerast áskrifandi að Verkalýðsblaðinu (Pósthólf 5186, Rvík).

NAFN

HEIMILISFANG

BÆJARFÉLAG

Áskriftargjald kr...........er greitt inn á póstgíróreikning nr. 12200-9.

# Gegn risaveldum og auðstéttum

Frumkvöðlar marx-lenínismans hafa útskýrt sambandið milli baráttu stéttanna og innbyrðis andstæðna ólíkra ríkja - t.d. milli nýlendna og auðvaldsríkja.

Maó Tsetung þróaði þessa greiningu með því að setja fram kenninguna um risaveldin, minni auðvaldslönd og þriðja heiminn og samskipti þeirra. Ýmis "vinstri" samtök (t.d. Fylkingin) og auðherrarnir í Kreml hafa ráðist gegn þessum þætti marx-lenínismans.

M.a. hafa falsmarxistarnir ákært kínverska flokkinn fyrir "samstöðu" með Bandaríkjunum og "andstöðu" við byltingarbaráttu verkalýðs gegn auðstétt í eigin landi. Hér á eftir fer kafli úr mikilvægri grein um kenninguna um þrjá heima eftir ritstjórn Dagblaðs alþýðunnar í Peking, sem afhjúpar falsanirnar og ver marx-lenínismann (þýðingar Verkalýðsblaðsins).

"Mörg Evrópulönd standa enn einu sinni frammi fyrir því að þurfa að verja þjóðlegt sjálfstæði sitt. Evrópsk verkalýðsstétt stendur enn einu sinni frammi fyrir því að halda vígstöðu sinni og giftudrjúgum og áunnum stöðum. Þjóðleg stríð gegn stórárás, kúgun og fjöldadrápi risaveldis í Evrópu eru ekki aðeins kleyf og líkleg, heldur einnig óhjákvæmileg, framsækin og byltingarsinnuð.

Af þessu leiðir að verkalýðsstétt 2.heimsins (t.d. Íslands, Þýskalands, Canada, aths. VBL.) verður að halda fána þjóðlegs sjálfstæðis hátt á lofti, meðan hún samfylkir vinnandi fjöldanum í harðri baráttu gegn undirokun og arðráni innlends einokunarauðvalds fyrir lýðréttindum og fyllra lífi.

Samtímis verður stéttin að standa í fararbroddi andstöðufylkingarinnar gegn yfirgangsógnunum beggja risaveldanna, sérstaklega af hálfu Sovétríkjanna. Við sérstök skilyrði verður hún að samfylkja með öllum sem neita að beygja sig fyrir stjórnun og kúgun risaveldanna og taka á virkan þátt forystu fyrir eða þátt í baráttunni.

Þetta mun stuðla að framþróun byltingarstöðunnar í þessum löndum.

Í marx-lenínismanum er ávallt lögð mikil áhersla á að vingast við miðjuöflin í baráttunni við óvininn. Tilraunir þriðja heims ríkjanna til að ná mismikilli einingu við 2.heima ríkin grefur undan stefnu árása, útþenslu og styrjaldar, sem bæði risaveldin reka og þá sérstaklega Sovétríki sósíalheimsvaldastefnunnar."

**gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum**

# „Það er ekki hægt að neita að vinna"

Þann 24. nóv. var haldinn félagsfundur í Verkakvennafélaginu Framsókn. Mættu þar um 40 félagskonur. Á þessum fundi voru kosnir fulltrúar á nýafstaðið þing Verkamannasambands Íslands. Stjórnin lagði fram lista, sá listi var auðvitað samþykktur þar sem félagskonur höfðu mjög lítinn tíma til umhugsunar, enda fundir Framsóknar aðeins boðaðir með sólarhrings fyrirvara. Umræða um þingið hafði engin verið í félaginu.

Fulltrúar Framsóknar fóru því á þingið án þess að hafa ábendingar eða kröfur til þingsins, sem samþykktar höfðu verið af félagskonum. Svona mun þetta hafa verið hjá flestum félögum. Stjórnir reyna að einoka félögin og fyrir alla muni að koma í veg fyrir virkni í félögunum.

Tillaga kom fram um stuðning Framsóknar við Baráttunefnd 1. des. Eftir nokkurt þóf var hún borin upp, en var felld.

Nokkrar fyrirspurnir komu til Þórunnar Valdimarsdóttur, formanns Framsóknar, þar á meðal spurning um hvort fólk hefði ekki löglegan rétt til að neita að vinna eftirvinnu, þó svo það sé ráðið í fulla vinnu. Jú, Þórunn hélt nú það, enginn skyldi bera á móti því, nei, nei! En EF mikið hráefni væri fyrir hendi, þá væri náttúrulega ekki hægt að neita vinnu! Þarna tók Þórunn sterklega undir með atvinnurekendum, en hundsaði rétt verkafólksins.

Verkakvennafélagið Framsókn er mjög stórt og mikilvægt félag í stéttabaráttunni. Mjög freklega er troðið á flestum meðlimum þessa félags, því er nauðsynlegt að reisa félagið við eftir langa legu, og gera það að raunverulegu baráttutæki í framtíðinni.

Verkalýðsfréttaritari.

# Fundur um Kína: Treyst á eigið afl

3. des. héldu EIK(m-l) fund í Reykjavík um Kína. Þar flutti Ari T. Guðmundsson ræðu og fjallaði um þróunina í landinu frá því snemma á öldinni og til okkar daga. Vbl. birtir hér stuttan kafla úr ræðunni, þar sem fjallað er um uppbyggingu sósíalismans í Kína.

"Hvað hefur gerst í Kína s.l. 28 ár? Lykillinn að breytingunni úr lýðræðislegu alræði alþýðunnar í alræði verkalýðsins, úr ruglingslegu samblandi af hagkerfum í upphafi til sósíalísks þjóðskipulags, liggur í yfirráðum byltingaraflanna ýfir ríkisvaldinu og stuðningi þorra kínversku þjóðarinnar við stefnu verkalýðsins. Kínverska ríkisvaldinu var beitt til að innleiða breytingar í landbúnaði, úr smáframleiðslu í samyrkju og ríkisbúskap, í iðnaði úr smáframleiðslu í smáum stíl í stórtækan létt- og þungaiðnað, í verslun úr einkaverslun í ríkisverslun, í menningarmálum úr einangrun og menntunarskorti í félagsmenningu og almenna menntun o.s.frv. Sósíalísk stefna gat náð að móta starfið í æ fleiri þjóðfélagsgreinum. Þjóðlega borgarastéttin sem hafði verið hluti byltingaraflanna í fyrsta áfanga var með þessu svipt stéttargrundvelli sínum í andstöðu við hana um leið og alþýðan og ört stækkandi verkalýðsstétt treystu völd sín. Á fáum árum hófst sóknin af fullum krafti.

Árið 1954 ritar Mao formaður:

"Sósíalisminn er þegar orðinn til í landi okkar... eigum við að koma honum á í landinu öllu, á öllum sviðum, á einni nóttu til þess að geta framkvæmt grundvallaratriði sósíalismans? Það lítur byltingarsinnað út en tekst ekki vegna skorts á sveigjanleika....það sem ekki er unnt að gera í einu vetfangi er gert hægt og sígandi. T.d. beitum við ríkiskapítalisma hægt og sígandi...til að koma á sósíalískri sameign alþýðunnar" (5. bindið bls. 143).

NÚTÍMA IÐNAÐARSAMFÉLAG!

Aðferð kínversku kommúnistanna og alþýðunnar var svipuð því sem gerðist í Sovétríkjunum á tímum NEP-stefnunnar. Miklar stökkbreytingar urðu á stundum, eins og t.d. við "stóra stökkið" 1957-58, þegar alþýðufjöldinn var virkjaður í geysistórt iðnaðarátak, þar sem t.d. kjörorðið um sjálfsbjörg og traust á eigið afl var sett fram, léttiðnaðurinn efldur og ný stóriðja með sósíalísku sniði skipulögð. Þá voru einnig alþýðukommúnurnar skipulagðar á landsmælikvarða.

Á 6. áratugnum er ríkisauðvald að verða óþarft og sósíalisminn ráðandi á öllum sviðum þjóðfélagsins, alræði öreiganna tekur við sem ríkisvald. Núverandi staða í Kína einkennist af því að efnisleg skilyrði til að reisa nútíma iðnaðarsamfélag, sjálfu sér nógt, eru fyrir hendi. Í ræðu Hua Kuo-feng, formanns, á 11. þingi Kommúnistaflokksins kom fram, að svo yrði fyrir lok aldarinnar. Þá verður aðeins rétt hálf öld frá því að Kína var eitt af fátækustu og vanþróuðustu ríkjum heims!

Staðreyndir tala sínu máli um sósíalismann í Kína.
- Þjóðin brauðfæðir sig og bætir lífskjörin jafnt og þétt.
- Kreppa, atvinnuleysi og skortur þekkist ekki.
- Iðnaðarframleiðslan eykst um 1/6 á ári, fjöldahreyfingar af Tachai-gerð reisa ný og ný iðjuver.
- Landið er grætt upp, fjöldahreyfingar af Tachai-gerð koma á fót fullkomnum, vélvæddum landbúnaði.
- Menntun og heilsugæsla nálgast það besta í okkar heimshluta."

# Verkamannasambandsþingið...

Frh. af forsíðu

að kjaraskerðingin nú þegar væri ærin tilefni til aðgerða!). Guðmundur J. lét óspart í það skína að á þessu þingi hafi mæst "allir straumar innan verkalýðshreyfingarinnar". Þar átti hann við, að auk fjölmargs velviljaðs og dugandi fólks sem sat þingið, var þar að finna toppmenn í forystu ASÍ, sem margir hverjir eiga bókstaflega ekkert sameiginlegt með verkafólki, lægra setta foringja úr röðum Alþýðuflokks og Alþýðubandalags, m.a. hina umtöluðu "órólegu deild" (sem reyndar er orðin blíðlynd og góð!). Auk alls þessa fólks voru svo þarna tveir skipbrotsmenn af flakinu "Kommúnistaflokkur Íslands/ML", sem samfylktu með Guðmundi J. og Eðvarð Sig. í sveit Dagsbrúnar. Menn þessir hafa gjammað dálítið á Dagsbrúnarfundum og stimplað sjálfa sig fulltrúa "hinna óánægðu" í Dagsbrún.

Meðreiðarsveinar Guðmundar J., Sigurður Jón Ólafsson og Benedikt Kristjánsson, félagar í "KFÍ/ML".

Þegar kom að kosningu til þingsins í Dagsbrún, þá tók Dagsbrúnarforystan til þess snilldarbragðs að stinga upp á þeim sem fulltrúum á þingið. Tvímenningarnir vildu það auðvitað ólmir og launuðu greiðann með því að vera prúðir og stilltir á þinginu. "KFÍ"-fulltrúarnir, þeir Benedikt Kristjánsson og Sigurður Jón Ólafsson, klöppuðu ánægjulega fyrir undansláttarræðum forystu Verkamannasambandsins og létu sér vel líka!

EINN STRAUM VANTAR!

Engin skipuleg andstaða var því gegn stéttasamvinnunni og svikunum á þinginu og þar með er hægt að slá því föstu að a.m.k. einn "straum" í verkalýðshreyfingunni hafi vantað á þingið. Það er baráttustefna sú sem EIK(m-l) leiða í verkalýðshreyfingunni og sem byggist á skipulegri andstöðu andstæðinga stéttasamvinnu og undansláttar gegn þeim öflum í verkalýðshreyfingunni sem eru fulltrúar fyrir þessa svikastefnu. Stefna EIK(m-l) í verkalýðsmálum byggist á traustu "grasrótarstarfi" í verkalýðsfélögum og á vinnustöðum, og þegar þetta starf hefur náð að festa verulega rætur og eflast, þá verður baráttan óhjákvæmilega umfangsmeiri og mun örugglega ná inn á þing ASÍ og Verkamannasambandsins. En meðan að staðreyndin er sú að undirstöðustarfið er rétt hafið eða í þann veginn að hefjast, þá er til lítils að senda "rauð lið" inn á samkundur á borð við síðasta Verkamannasambandsþing. Raunin varð sú að enginn þingfulltrúi varði þar baráttulínu í verkalýðshreyfingunni, en Benedikt, Sigurður Jón og fleiri stóðu fyrir góðlátlegu nöldri og gjammi út í einstaka sundurlaus atriði sem varða svik ASÍ-forystunnar, án þess að það snerti nokkurn tíma kjarna málsins eða að það yrði til að afhjúpa svikatafl forystunnar hið minnsta. En þó að þetta þing hafi liðið hjá án þess að baráttustefna hafi gert vart við sig, þá er það jafn víst að sá tími kemur að kommúnistar og aðrir baráttusinnar úr verkalýðshreyfingunni munu verða til staðar á slíkum þingum og þá verður lífið væntanlega ekki eins rólegt og þægilegt fyrir ASÍ-forystuna og nú í desember.

# Úr "Jólablaði verkakvenna"

Kvennadeild Kommúnistaflokks Íslands, gaf út blað fyrir jólin 1934, "Jólablað verkakvenna". Þar eru margar ágætis greinar og sögur um jafnréttisbaráttuna og sósíalismann. Meðal annars ritar Gunnar Benediktsson, rithöfundur, grein sem nefnist "Jól". Hún birtist hér í heild.

Hvað eru jól?

Jól eru hvíldartími þeirra manna sem aldrei þurfa að vinna sig þreytta, - þá eru haldnar stærstu átveislur þeirra, sem aldrei eru svangir. Það er hátíðin, þegar mest er um ljósadýrð í skrautlegum sölum, - mest um glaðværar skemmtanir - söng og hljóðfæraslátt, samkomuhald og drykkjuslark. -

Jólin eru stærsta peningalind kaupmannanna, einkum þeirra sem pranga með vörur, sem ekki teljast til brýnustu nauðsynja eða eru til lítils eða einskis nýtar. Þau eru tekjulind blaðanna, sem lifa á auglýsingum. Þau eru hábjargræðistími bruggara og vínsmyglara.

Og hvað er meira um jólin?

Þá syngur auðvaldið vögguljóðin sín. Þá er sungið í kirkjunum um frið á jörðunni til að svæfa skilning manna á því að heimurinn logar í ófriði og loka augum manna fyrir þeirri staðreynd að friður getur hér aldrei orðið fyrri en búið er að losa heiminn úr klóm hinnar takmarkalausu samkeppni, hinna óseðjandi peningahíta, braskara og fjárplógsmanna. Þá er talað um velþóknun guðs og ljóma á Betlehemsvöllum,til að draga úr tilfinningu öreiganna fyrir því að þeir sitji í myrkri og kulda. Þá fjúka 5 og 10 krónu seðlar, - einn og einn - frá sölum burgeisanna niður í kjallarholurnar til hinna öreiga. Og þeir suða vögguljóð auðvaldsins í eyru hins gefandi burgeiss, þagga niður nöldur syfjaðrar samvisku gagnvart öreigalýðnum, sem tærist upp af sulti, kulda og ólofti. Því 5 króna seðillinn hvíslar: "Þú hefir gert skyldu þína. Sofðu róleg, viðkvæma og góða og göfuga sál".

Og 5 króna seðillinn syngur líka vögguljóðin fyrir öreigana. Hann syngur um það, hvað mennirnir eru góðir, hann syngur um kærleika prúðbúinnar konu, sem kemur með pinkil til hungraðra barna og sefar hungurkvalirnar örfáar mínútur sjálfa jólanóttina. Hann syngur um kærleika guðs, sem drepur ekki öreigana úr sulti alveg umsvifalaust, heldur sendir blessaða jólahátíðina með ofurlitla fróun mitt í myrkri skammdegisins. Hann sefar tilfinninguna, sem er að vakna í

**JÓL**

brjósti hins þrautpínda, sem einskis hefir notið af gæðum lífsins, fyrir ranglæti því, sem hann lifir við. Og hann fer að syngja um frið á jörðunni og velþóknun guðs yfir mönnunum.

En hvað eru jólin fyrir þig fátæka alþýðukona? Eru þau draumur um einhverja ofurlitla glaðningu frá sölum burgeisanna, - um mola af borðum hinna ríku? Eða eru þau skýrasti boðskapur ársins um öreigð þína? Ef til vill eru þetta fyrstu jólin, sem þú hefir ekki haft nokkur skilyrði til að gera ofurlitla tilbreytni fyrir börnin þín í röku kjallaraholunni. Og þú segir í hjarta þínu: Nú eiga jólin ekkert erindi til mín. Nú hafa þau ekkert mér að færa.

En leggðu eyrun við, og jólin færa þér meira en nokkurn tíma áður. Sjáðu alla ljósadýrðina í búðargluggunum og sjáðu alla fögru og glæsilegu munina. Sjáðu stóru björtu salina, þar sem upp er stillt prúðbúnum líkneskjum, fataströngum og skrauthöttum, meðan þú ert sama sem húsnæðislaus og getur ekki náð í fat á hálfnakið barnið þitt. Settu þig ekki úr færi, þar sem þú getur við komið að kynna þér, hvernig bugeisarnir sem búa í stóru og fallegu húsunum, ausa of fjár í alls konar ónauðsynja prjálvörur til að senda vinum sínum, sem hafa gnægðir fjár og alls sem hjartað girnist og með peningum verður aflað. Það er lærdómsríkt, meðan þú átt engan eyri til brýnustu nauðþurfta þín og barna þinna. Reyndu ef þú getur að skyggnast um á borðunum í veislunum, sem haldnar verða um jólin og líttu á réttlætið sem ríkir í þessu þjóðfélagi, þar sem fjöldi manna hefir tækifæri að lifa í argasta óhófi í mat og drykk, fatnaði og hvers konar þægindum, meðan þú og fjöldinn allur stéttarsystkina þinna, veit ekkert hver ráð verða að slökkva hungur sitt og sinna næsta dag.

Hversu fátæklegt, sem um er að litast í hýbýlum þínum um þessi jól, þá mundu samt faðma að þér ástvini þína og óska þeim gleðilegra jóla. Hvað felur þú í þeirri ósk? Hefir þú skilning á því, að í þeirri ósk felur þú kröfu til barna þinna um að þau láti jóladýrðina og jólafagnaðinn sem þau sjá umhverfis sig og fá ekki sjálf að njóta, opna augu sín fyrir ranglæti lífsins, harðýðgi þess og svívirðingum. Feldu í þeirri ósk þinni kröfu um það, að að jólunum afstöðnum verðið þið öll ákveðnari og hæfari til að taka virkan þátt í baráttunni fyrir frelsun stéttar þinnar og fyrir frelsun mannkynsins undan siðleysi auðvaldsskipulagsins. Og með þessa ósk í brjósti segi ég við ykkur öll, stéttarsystkini mín: Gleðileg jól.

Gunnar Benediktsson.

# Gjafaáskrift

Verkalýðsblaðið hvetur alla til að taka virkan þátt í uppbyggingu blaðsins. Ein mikilvæg aðferð til þátttöku er að vinna ötult starf í að safna áskrifendum. Verkalýðsblaðið hefur látið prenta sérstakt gjafakort,sem fylgir öllum GJAFAÁSKRIFTUM. Gefið áskrift að Verkalýðsblaðinu í jóla og nýársgjöf og sendið gjafakort með. GJAFAKORTIN fást í OKTÓBER-búðunum Hafnarstræti 79 Akureyri og Óðinsgötu 30 Reykjavík. Auk þess verða sölumenn Verkalýðsblaðsins með kort til sölu. Kortin kosta jafnt og áskriftin að Verkalýðsblaðinu. Það er verðug gjöf þar sem Verkalýðsblaðið er.



Zophonías Jónsson fór nú í haust í aðra ferð sína til Kínverska Alþýðulýðveldisins. Fyrri ferðina fór hann árið 1952, ásamt þeim Jóhannesi úr Kötlum og Þórbergi Þórðarsyni o.fl. Þeim var þá boðið til Kína og fóru á vegum kínverska sendiráðsins í Kaupmannahöfn, en þá hafði íslenska ríkið ekki stjórnmálasamband við Kínverska Alþýðulýðveldið. Í fyrri ferðinni dvaldi Zophonías rúman mánuð í Kína.

Í haust var Zophonías í sendinefnd frá Kínversk-íslenska menningarfélaginu – KÍM


Zophonías Jónsson

# Það er engin dýrtíð í Kína

– sem boðið var í vináttuheimsókn til Kína. Verkalýðsblaðið ræddi við Zophonías um síðari Kínaför hans og fyrst var hann spurður um það, hvort einhver munur væri sjáanlegur á kínverska þjóðfélaginu nú miðað við 1952.

– Það er geysilegur munur. Til dæmis í Peking, en þar dvöldum við lengst bæði í fyrri ferðinni og núna. Byggðin hefur aukist mikið og hvert sem maður leit, var verið að byggja. Þeir eru fljótir að byggja og virðast hafa mikla tækni í byggingum.

Lífskjörin eru greinilega komin á miklu hærra stig. Þetta sá maður t.d. strax á klæðaburði fólksins. Efnið er miklu betra og sterkara, en sniðið er hið sama. Það hefur ekkert breyst. Fólkið klæðir sig mjög þægilega. Allt bendir til þess að lífskjörin hafi batnað mikið.

– Fannst þér vera munur á viðmóti fólksins í Kína í samskiptum hvert við annað?

– Já, það er allt annað. Allt er þannig skipulagt. Við skoðuðum t.d. barnaskóla, sem voru mjög vel skipulagðir og fullkomnir. Lífshættir Kínverja eru afar ólíkir okkar. Þarna er ekki þessi asi og flýtir á öllu. Þrátt fyrir þennan yfirþyrmandi mannfjölda, allt líður áfram hægt og rólega. Meira að segja einn af varaforsætisráðherrum Kína gaf sér góðan tíma til að spjalla við okkur og virtist ekkert þurfa að flýta sér þegar við áttum við hann samræður.

– Varst þú var við baráttuna gegn svonefndri "fjórmenningaklíku" í Kína?

TREYSTA Á EIGIÐ AFL

– Í öllu daglegu lífi bar ekki mikið á henni, en í öllum viðtölum okkar við Kínverja var mikið um þá rætt og alltaf undirstrikað að þeir hefðu tafið allar verklegar framkvæmdir og haldið aftur af þróuninni. "Fjórmenningarnir" lögðu mikla áherslu á "fræðilega skólun", og þeir gagnrýndu þá sem sköruðu fram úr í framleiðslunni og kölluðu þá kapítalista. Þetta gerðist t.d. með Teng Hsiao-ping. Sumir hafa lagt þetta þannig út að "fjórmenningarnir" hefðu verið róttækari en hinir og að sigurinn yfir þeim hefði verið undansláttur. Okkur skildist að svo væri alls ekki.

– Eitt af mest notuðu einkunarorðum Kínverja er um að treysta á eigið afl. Varst þú ekki var við þetta í verki?

– Þetta er einmitt það sem þeir lögðu mikla áherslu á og þetta er alls ekkert innantómt hjal hjá þeim. Þetta er raunverulegt.

Allt er svo vel skipulegt. Við heimsóttum sveitakommúnu í Suður-Kína. Þar búa um 30.000 manns. Við fórum út á akrana þar sem fólkið var við vinnu sína við að uppskera hrísgrjón. Allt var þetta gert með handafli. Þeir eru enn ekki búnir að vélvæða landbúnaðinn, nema að litlu leyti, svo allt er enn skorið með sigð og handafli. Samt sem áður er hægt að fullnægja matþörf allra í Kína.

Stærstu sigrarnir í landbúnaðinum eru í því fólgnir að varna flóðum og ráða yfir vatninu. Með flóðgörðum og miklum áveitum ráða Kínverjar yfir vatninu bæði í þurrkum og flóðum. Þetta þýðir að þeir fái alltaf jafna uppskeru og fá ekki þessi vondu ár sem valda hungursneyðum.

– Þetta segir að þegar sósíalisminn, vísindi verkalýðs og vinnandi alþýðu, er orðinn að efnislegu valdi, þá nær maðurinn yfirráðum yfir náttúrunni og getur tamið hana sér í hag?

– Já, auðvitað. Þetta má sjá alls staðar í Kína núna.

GAGNBYLTINGARÖFLIN SIGRUÐ

– Hérlendis og erlendis heyrast raddir um að Kína hafi að einhverju leyti horfið frá braut sósíalismans, að þar hafi kapítalisminn sigrað. Nú kynntist þú Kína 1952 og aftur nú og hefur fylgst með þróuninni allan tímann. Hafa þessar raddir við rök að styðjast?

– Nei, þvert á móti. Það hafa komið upp andbyltingaröfl, svo sem í kring um Líu Sjaó-sí og Lin Píaó, en þau hafa verið borin ofurliði af alþýðunni.

Gæfa kínversku alþýðunnar er að hún átti formann sem aldrei vék frá stefnu sinni. Mao Tsetung gaf þjóð sinni svo sterka stefnu að hún kvikar ekki á brautinni. Þjóðin var svo gæfusöm að taka alltaf tillit til Maós formanns. Eftir því sem ég sá, þá vinnur þjóðin markvisst að því að þróa þjóðfélag sitt á braut sósíalismans.

– Það sem tröllríður öllu í efnahagsmálum hér á landi, óðaverðbólga og kreppa, sem reynt er að velta yfir á herðar verkalýðs og vinnandi alþýðu. Hvernig er verðlagsmálum háttað í Kína?

– Það er engin dýrtíð í Kína. Vöruverð er óbreytt frá ári til árs. Verð á öllum nauðsynjavörum er afar lágt og á mörgum vörum hefur verð ekki hækkað í áratugi. Kaupið er líka lágt en smám saman er verið að hækka það og þar með bæta lífskjörin. Það er ef til vill þetta sem mest einkennir ástandið í Kína í dag, segir Zophonías Jónsson.

□ □

## TACHAI

Tachai-alþýðukommúnan er til fyrirmyndar í framleiðslu landbúnaðarafurða um allt Kína. Með því að setja marx-lenínismann í forystuna fyrir framleiðslunni hefur landbúnaðarverkafólkinu og bændunum í Tachai tekist að ná betri tökum á vélvæðingu landbúnaðarins en áður. Í Tachai hefur alþýðunni einnig tekist að ná tökunum á vatninu, en áður var flóðahætta alltaf yfirvofandi á regntímanum og miklir þurrkar þess á milli. Nú hefur alþýðan náð völdum yfir vatninu með risastórum áveituskurðum.

Tachai hefur vaxið og orðið fyrirmyndarkommúna. Reynslan frá Tachai er leiðarljós landbúnaðaruppbyggingarinnar um allt Kína. Haldnar hafa verið tvær landsráðstefnur undir kjörorðunum: "Lærum af Tachai í landbúnaði". Á hinni fyrri sagði Hua Kuo-feng, formaður Kommúnistaflokks Kína:

"Að læra af Tachai í landbúnaði og byggja upp fylki af Tachai-gerð um allt landið er mikil byltingarsinnuð fjöldahreyfing til að halda byltingunni gangandi á tímaskeiði alræðis öreiganna og til að byggja upp sósíalískan landbúnað með meiri, hraðari, betri og hagnýtari árangri".

Verkalýðsblaðið bendir lesendum á, að í bóksölum Októberforlagsins, Óðisgötu 30 í Reykjavík og Hafnarstræti 79 á Akureyri, má fá talsvert af góðu lesefni um sósíalísku ríkin. Í janúarblaðinu verður Albaníu gerð nokkur skil.



Myndin sýnir áveitumannvirki, sem nýlega hefur verið byggt í Tachai. Stærstu sigrarnir sem kínversk alþýða hefur unnið í baráttu sinni við óvæg náuuúruöflin, er bygging flóðvarnargarða og áveitna.

# Kínverskur landbúnaður: Kornfram

"Tekjur af einum hektara af eplatrjám eru jafn miklar og tekjur af tíu hekturum af korni. Hversvegna skyldum við því ekki hætta kornrækt á hluta af akurstöllunum í brekkunum og hefja þar eplarækt?" Þetta var tillaga sem nokkrir kommúnufélagar í fjallaþorpi einu í Huanghsiensýslu, hluta Yentaiumdæmis í Shantunghéraði báru fram er þeir ræddu búskaparáætlanir sínar. En tillögunni var hafnað að umræðum loknum og ákveðið að rækta epli aðeins í sjálfum brekkunum og draga ekki úr notkun lands til kornræktar.

Þetta er dæmi um það hvernig stefna Maós formanns um "að líta á korn sem þann hlekk í framleiðslunni sem tryggir alhliða þróun" hefur verið framkvæmd er unnið hefur verið að því að stórauka búvöruframleiðsluna í ýmsum hlutum Kína. Framleiðslufylkið í Hsiatingchia hefur ekki aðeins náð því marki með þessari stefnu að verða sjálfu sér nægt með kornvöru; heldur hefur það afhent ríkinu árlega 350 lestir af afgangskorni og meira en 1.500 lestir af eplum og perum. Framleiðslufylkið hefur gróðursett æ fleiri ávaxtatré með hverju árinu sem líður. Tekjur félaganna hafa vaxið jafnt og þétt.

Landbúnaður er grundvöllur kínversks efnahagslífs og korn er lífsnauðsynlegt. Engin trygging er fyrir því að hinir ýmsu þættir efnahagslífsins til bæja og sveita eflist án þess að fyrst sé séð fyrir kornþörf íbúanna. Stærsta og mesta afrek í kínverskum landbúnaði eftir stofnun Alþýðulýðveldis fyrir 28 árum er hvernig sá vandi að brauðfæða 800 milljónir íbúa landsins var leystur. Það er frumskilyrði sem gerir það mögulegt fyrir kínverskt efnahagslíf að þróast sjálfstætt og treysta á eigin getu.

En þarfirnar sem koma fram við sósíalíska uppbyggingu efnahagslífsins og í daglegu lífi fólks eru margs konar eins og Maó formaður hefur bent á: "Landbúnaður situr í fyrirrúmi er við byggjum upp efnahagslíf okkar; með landbúnaði leysum við bæði matvælavandamálið, sem er alvarlegast, og vandann í sambandi við öflun hráefna svo sem baðmullar, hamps, sykurreyrs og bambuss, sem eru nauðsynleg til fatagerðar, sykurs, pappírs og annarra nauðsynja. Skógrækt og fjölgun gripa eru einnig mikilvægir þættir í landbúnaði."

Korn gegnir lykilhlutverki.

Svo er litið á að korn gegni lykilhlutverki og þannig hafa sveitir Kína byggt upp fjölbreytt efnahagslíf sem hefur í för með sér alhliða aukningu á ræktun afurða til iðnframleiðslu, skógrækt, búfjárrækt, fiskveiðum og hliðargreinum.

Sá sem þetta ritar varð vitni að því hvernig þetta var framkvæmt er hann ferðaðist um nokkrar sveitir í Yentaiumdæmi.

Yentaiumdæmi, sem nær yfir meira en 22.000 ferkílómetra svæði, er á Chiaotungskaga í austurhluta Shantunghéraðs. Sautján sýslur og borgir heyra þessu umdæmi til með 9,2 milljónir íbúa; í sveitum búa 8,6 milljónir. Yentaiumdæmi er hæðótt og þar eru 930.000 hektarar ræktarlands, þar af 70% uppi í hæðunum. Tíu af hundraði ræktaða svæðisins er kalíauðugt og láglent, en tuttugu af hundraði er flatlendi. Flestir þorpsbúa lifðu í sárri fátækt fyrir frelsun og árlega höfðu þeir korn aðeins til sex mánaða og urðu því að lifa það sem eftir var ársins á kornhýði og villtu grænmeti. Fyrst eftir frelsun var korn flutt úr öðrum landshlutum á tímabili.

Heildarkornframleiðsla Yentaiumdæmis er nú þrisvar og hálfu sinni meiri en hún var skömmu eftir frelsun. Eftir að fyllilega hefur verið séð fyrir þörfum íbúa borga og sveita í umdæminu er ríkinu afhent árlega meira en hálf milljón lesta af korni, sem senda skal til annarra svæða. Yentaiumdæmi selur ríkinu árlega 150.000 lestir af jarðhnetum, 550.000






Þeir hafa tamið vatnið og veita því til að geta unnið ennþá stærri sigra í sósíalísku uppbyggingunni.
Allar myndir frá Kína eru teknar af HSINHUA.

Í september sl. fór ferðahópur til Kína á vegum Kínversk-íslenska menningarfélagsins (KÍM). Dvalið var í u.þ.b. 3 vikur í landinu, og ferðaðist hópurinn víða. VERKALÝÐSBLAÐIÐ hitti að máli einn af þátttakendum í ferðinni, Petru Þórlindsdóttur, starfsstúlku á Hótel Esju, og bað hana um að segja lesendum blaðsins frá ferðinni.

- Nú er ekki á hverjum degi sem verkafólk frá Íslandi fer alla leið til Kína í sumarfríi sínu. Hvers vegna ákvaðst þú að fara til Kína?

- Ég hef verið félagi í KÍM um árabil, og fylgst með því sem er að gerast í Kína.



Petra Þórlindsdóttir.

"fengum að taka með okkur vítamíntöflur, og auk þess gafst okkur tækifæri á að smakka á hressingarmeðölum úr hunangi sem búin eru til eftir ævagamalli uppskrift. Það var athyglisvert hvernig Kínverjar hafa lært af ýmsum fornum lækningaraðferðum. Við fórum t.d. í heimsókn í sjúkrahús, og fylgdumst með hvernig nálastunguaðferðinni er beitt, ásamt fleiri gömlum lækningaaðferðum sem gefa góða raun.

- Hvað er þér minnisstæðast úr ferðinni?

# Hagsmunir alþýðunnar í fyrirrúmi

Mig hefur lengi dreymt um að komast þangað, og þegar efni og aðstæður leyfðu og tækifæri gafst, ákvað ég að slá til og fara.

Þegar farið er til Kína, er það gert í öðrum tilgangi en ef ferðast er eitthvert annað. Í svona ferðum er lögð áhersla á að kynna þátttakendum land og þjóð, en ekkert rúm er fyrir áfengisþamb og næturklúbbarall. Ég fór til Kína til að kynnast uppbyggingunni þar, fólkinu og menningu þjóðarinnar, og varð alls ekki fyrir vonbrigðum. Ferðin var vel skipulögð og allur aðbúnaður góður.

- Hvernig kom Kína þér fyrir sjónir svona í fljótu bragði?

- Þó ég þættist vera búin að lesa mér nokkuð til um landið, verð ég að segja að margt kom mér mjög á óvart. Það er augljóst að Kína er þróunarland, og þess vegna á allt öðru stigi en t.d. Ísland. Kínverjar reyna ekkert til að leyna þessu. Þeir viðurkenna að í Kína sé fátækt, en benda um leið stoltir á, að allir hafi nóg að bíta og brenna og stöðugt er unnið að því að bæta kjörin. Enda koma Kínverjar fyrir sjónir sem ánægt og iðjusamt fólk. Ég vil taka það fram, að okkur var frjálst að tala við hvern sem við vildum, og engin höft voru höfð á hvað við gerðum eða hvert við fórum fyrir utan skipulagða dagskrá.

- Hvað var það helsta sem þið sáuð?

- Það má segja að það hafi skipst í tvennt. Í fyrsta lagi skoðuðum við fornminjar og sögufræga staði, og okkur var kynnt saga Kína í stórum dráttum. Í öðru lagi skoðuðum við verksmiðjur, skóla, sjúkrahús, samyrkjubú og fleira sem bar vitni hinni sósíalísku uppbyggingu. Það var lögð mikil áhersla á að kynna okkur hina stórstígu þróun sem átt hefur sér stað frá því í byltingunni, bæði efnahagslega og pólitískt. Reynt var að draga fram ástæðurnar fyrir breytingunni á þjóðfélagsskipaninni, frá hálf-lénsku ríki þar sem réttindi alþýðunnar voru fótum troðin, og yfir í sósíalískt ríki þar sem alþýðan fer með völd. Það er greinilegt að hagsmunir alþýðunnar sitja alls staðar í fyrirrúmi. Við allar verksmiðjur sem við heimsóttum voru barnaheimili og heilsugæsla, og í kommúnunum var séð fyrir öllum þörfum fólksins. Almenn þátttaka í pólitískum umræðum virðist mjög mikil, og alls staðar voru veggblaðaumræður, hvort heldur sem var á vinnustöðum eða í skólum. Þar bar mest á gagnrýni á fjórmenningaklíkuna svonefndu og uppgjöri við áhrif þeirra, sem virðast hafa verið víðtæk.

Í verksmiðjum sem við komum í fengum við að skoða hvernig framleiðslan fer fram, og prófa afurðirnar. Við komum t.d. í lyfjaverksmiðju, þar sem við

- Mér er minnisstæðast er við heimsóttum grafhýsi Mao Tsetungs. Við fórum þangað á sama morgni og það var opnað, og vorum fyrsti erlendi ferðahópurinn sem þangað kom. Að öðru leyti er erfitt að gera upp á milli þess sem ég sá og kynntist.

- Nokkuð sem þú vildir segja að lokum?

- Ég vil eindregið hvetja fólk sem hefur áhuga á að kynna sér Kína, að reyna að komast þangað með KÍM. Þessar ferðir eru til þess ætlaðar að auka vináttu íslenskrar og kínverskrar alþýðu. Þeir sem taka þátt í þeim með því hugarfari verða ábyggilega ekki fyrir vonbrigðum. Það er mjög mikilvægt að verkafólki og öðru alþýðufólki sé gert kleyft að fara í þessar ferðir, því þær eiga mest erindi við þessa þjóðfélagshópa, þar sem Kína er tvímælalaust verkalýðsríki, og sýnir að alþýðan þarf ekki að láta undiroka sig.

□ □



Í desember var haldið í Kína annað þjóðþingið til að læra af reynslu Tachai-alþýðukommúnunnar í landbúnaði. Þar flutti félagi Hua Kuo-feng, formaður Kommúnistaflokks Kína, ræðu og sagði meðal annars:

"Mao formaður hélt Tachai og Taching á lofti eins og tveimur rauðum fánum sem fjórmenningaklíkan reyndi árangurslaust að rífa niður. Við verðum að halda þeim hátt á lofti. Að læra af Tachai og Taching merkir að halda áfram að taka stéttabaráttuna sem lykilatriði og afhjúpa miskunarlaust og afneita fjórmenningaklíkunni".

## TACHING

Taching er stærsta olíusvæðið í Kína. Frá 1964 hefur Taching verið fyrirmyndarkommúna í iðnaði, en þá setti Mao Tsetung fram kjörorðið: "Lærum af Taching í iðnaði"!

Taching-olíusvæðið hefur unnið mikla sigra með því að treysta á eigið afl í uppbyggingunni. Á þrem árum voru geysimiklar olíulindir opnaðar á óbyggðum auðnum. 14 árum síðar er Taching leiðandi afl í iðnaðinum.

Leiðandi félagi frá Taching segir svo:

"Það sem er mikilvægast, er að Taching heldur sig við undirstöðuatriðin: að setja pólitísku stefnuna á oddinn, vopna verkamenn og tæknimenn marx-lenínismanum/kenningum Mao Tsetungs, og Taching hefur búið til byltingarsinnaða hópa sem hafa öreigasinnaða pólitíska vitund á háu stigi. Olíu svæðið sameinar byltingarsinnaða afstöðu og stranga vísindalega aðlögun í starfinu. ...Taching treystir fullkomlega verkalýðsstéttinni fyrir að finna aðferðir til verkamannastjórnunar á sósíalísku fyrirtæki. Horfið var frá gömlum aðferðum með því að þjappa olíuiðnaðinum saman í þéttbýli og búið hefur verið til nýtt sósíalískt fyrirtæki sem sameinar iðnað og landbúnað og þéttbýli og dreifbýli.
Þetta leiðir til þess að andstæðurnar milli þéttbýlis og dreifbýlis, milli verkamanns og bónda og milli hinnar andlegu og líkamlegu vinnu hverfa smám saman".

# leiðslan mikilvægasti hlekkurinn

lestir af eplum, perum og öðrum ávöxtum og 360.000 lestir af fiski og rækjum og öðrum fiskafurðum ásamt miklu af kjöti.

Hveiti, maískorni, sætum kartöflum og öðrum tegundum til manneldis er sáð í stórar ekrur á sléttunum eða í stöllunum í hæðunum og þessi ræktun er um 78% af ræktarlandi umdæmisins. Þegar búskaparáætlanir í umdæminu eru gerðar sjá landbúnaðardeildir svo um að nóg landrými sé tryggt fyrir matvælauppskeruna. Kornræktarland hefur forgang í sambandi við tilbúinn áburð, skordýraeyði og búvélar.

Jafnframt hefur verið gengið frá áætlunum í Yentaiumdæmi um að rækta ýmsar afurðir til iðnaðar við mismunandi aðstæður og í ýmiss konar jarðvegi. Jarðhnetur eru ræktaðar í sendnum jarðvegi og ambary-hampur í kalfauðugum jarðvegi láglendisins. Nokkurt land í útjaðri borga og bæja er notað til grænmetisræktunar.

Brekkurnar eru notaðar til aldinræktar og eikur, en laufin af þeim eru notuð til að ala tússah silkiorminn, eru gróðursettar á hæðunum þar sem sólar nýtur minna. Alþýðukommúnurnar við ströndina leggja mikla stund á fiskveiðar og rækta söl og skelfisk á grunnsævinu.

Gróðasjónarmiðið stýrir ekki framleiðslunni.

Kommúnurnar í umdæminu hafa gjörbreytt uppskerukerfinu í þeim tilgangi að stórauka bæði kornuppskeruna og framleiðslu á afurðum sem notaðar eru í iðnaði.

Fyrir frelsun mátti það heita regla í Yentai að landið gæfi aðeins eina uppskeru á ári. Nú fást tvær uppskerur nær allsstaðar á hverju ári og er það gert mögulegt með því að rækta fleiri en eina tegund á sama landi. Þar sem aðstæður leyfa er hveiti ræktað með maís, maís með lækningajurtum og hveiti með jarðhnetum. Sums staðar eru jarðhnétur og sætar kartöflur ræktaðar milli eplatrjáaraðanna.

Framleiðslufylki við ströndina nýta mest allt sitt vinnuafl við fiskveiðar, en undir stjórn kommúnanna hafa þau skipulagt konur og annað fáanlegt vinnuafl til að brjóta land á ströndinni og smáeyjum til ræktunar og timburframleiðslu. Þar af leiðandi hafa mörg fiskveiðihéruð orðið sjálfu sér nóg með kornvöru.

Kommúnurnar, sem leggja aðaláherslu á kornframleiðslu, treysta á þann efnahagslega styrk sem samyrkjuskipulagið veitir við að efla skógrækt, búfjárrækt og hliðargreinar og láta hverja grein styðja við bakið á hinum. Til dæmis hefur verið komið upp myllum sem framleiða hvítahveiti og jurtaolíur, niðursuðuverksmiðjum fyrir ávexti og silkivinnslustöðvum í fjölmörgum þorpum. Úrgangur þaðan er gott dýrafóður og þessi dýr leggja svo til afbragðs húsdýraáburð. Mikið af hveitistráum og maísstilkum er nú notað í teppi, handtöskur og fleira þess háttar, en ekki brennt eins og áður var.

Fjölbreytt efnahagslíf



skapar atvinnu bæði fyrir heilsuhrausta og þá sem minna mega sín og fólki eru greidd laun í samræmi við þá vinnu sem það leysir af hendi. Á þeim árstímum sem mikið er að gera er mestur hluti starfsliðsins í kommúnunum eða framleiðslufylkjunum að störfum við búskapinn. Þegar minna er að gera eða rigning er, er lögð stund á hliðargreinarnar. Þetta verður til þess að allir leggja sig fram eftir bestu getu.

Fjölbreytt efnahagslíf gerir það auðveldara að safna í sjóð til að efla þróun landbúnaðarins. Kommúnurnar og framleiðslufylkin í Yentai hafa fest kaup á dælubúnaði, dráttarvélum og öðrum landbúnaðartækjum fyrir fé úr sjóðum sem að mestu eru afrakstur annarra greina heldur en akuryrkju. Tekjur af þessum greinum eru nú meira en helmingur heildartekna margra kommúna og framleiðslufylkja.

Skipulagning efnahagslífsins í sósíalistaríkinu Kína og kommúnukerfið í sveitum landsins skapa aðstæður til að hægt sé að framkvæma þá stefnu "að líta á korn sem þann hlekk í framleiðslunni sem tryggir alhliða þróun." Kommúnurnar hugsa ekki um hagnað þegar framleiðslan er skipulögð; þvert á móti skipuleggja þær framleiðslufylki sín og vinnuhópa í því augnamiði að ná markmiðum sem ríkið setur varðandi framleiðslu á korni og uppskeru til iðnaðarnota og varðandi þróun í öðrum greinum. Tekið er tillit til loftslags og landfræðilegra aðstæðna þegar ákveðið er hversu mikilli framleiðslu skuli keppa að á hverju svæði fyrir sig. Á svæðum þar sem áhersla er lögð á baðmull eða aðra uppskeru til iðnaðar, svo og í fiskveiði- og sauðfjárræktarhéruðum, ræktar fólk korn þar sem hægt er að koma því við. En til að bæta íbúunum upp það sem á vantar sér ríkið um að senda þeim kornvöru frá héruðum þar sem áhersla er lögð á matvælaframleiðslu.

(Frá sendiráði Kína í Rvík)




lönd vilja sjálfstæði
þjóðir vilja frelsi
alþýðan vill byltingu

# För Sadats til Ísrael þjónar heimsvaldastefnu og síonisma

För Sadats Egyptalandsforseta til sionistaríkisins Ísraels hefur vakið gífurlega reiði og verið harðlega fordæmd í flestum ríkjum fyrir botni Miðjarðarhafs ásamt Frelsishreyfingu Palestínu, PLO. En í fjölmiðlum vesturlanda hefur Sadat hins vegar verið mikið hrósað sem friðarhetju, sem vilji raunverulega koma á friði á þessu viðkvæma svæði. Hvað er þá hið rétta í málinu?

Í ræðu sinni í ísraelska þinginu, Knesset, sagði Sadat að Ísrael yrði að láta af hendi öll herteknu svæðin frá því í júní 1967. Hann sagði einnig að Palestínuarabar hafi rétt til að stofna sitt eigið ríki. Þetta eru allt punktar sem hafa lengi verið afstaða Egypta og annarra Arabaríkja. En Sadat sagði jafnframt að Egyptar væru reiðubúnir að gera allt sem í þeirra valdi stæði til að tryggja öryggi Ísraelsríkis. Þetta eru ný orð frá Sadat. Þar með er Sadat búinn að viðurkenna Ísraelsríki, ríki sem byggir á sionisma, kynþáttamisrétti og útþenslustefnu. Ríki sem hefur gert heila þjóð útlæga og réttindalausa í sínu eigin landi og lagt undir sig eigur hennar. Ríki sem á engan tilverurétt.

Með þessu hefur Sadat gert að engu þá miklu vinnu sem PLO hefur lagt í að afhjúpa Ísrael sem hernaðarríki og skapað mikinn klofning og ringulreið meðal Arabaríkja, sem gefur sionismanum og risaveldunum tveim leik á borði. Þetta getur aðeins skoðast sem svik við palestínsku þjóðina og réttláta baráttu hennar fyrir endurheimt heimalands síns.



Palestínska þjóðin er staðráðin í að berjast fyrir frelsum heimalands síns undan oki sionismans.

### Risaveldin vilja viðhalda ólguástandi fyrir botni Miðjarðarhafs.

Ástandið fyrir botni Miðjarðarhafs einkennist af "ekki stríð/ekki friður" ástandi, sem heimsvaldastefnan hefur skapað með það fyrir augum að ná sem mestum efnahagslegum og pólitískum ítökum meðal Arabalandanna. Arabalöndin hafa þurft að leggja alla sína krafta í uppbyggingu landvarna á meðan Ísrael fær ótakmarkaðar birgðir af vopnum og "fallbyssufóðri" f frá Bandaríkjunum og Sovétríkjunum. Þetta ástand er bakgrunnur ferðar Sadats til Ísraels. Efnahagsástandið í Egyptalandi er ótryggt, og landið stendur langt að baki Ísrael. För Sadats er örvæntingarfull tilraun til að kaupa frið milli landanna tveggja.

Sovétríkin hafa stutt Ísraelsríki í mörg ár engu síður en Bandaríkin, þó það hafi ekki verið eins opinskátt. Það hefur verið stefna Sovétríkjanna að stofna mini-Palestínu, viðurkenna Ísraelsríki og tryggja landamæri þess. Nákvæmlega á sama hátt og Bandaríkin, hafa Sovétríkin haft þá pólitík að sá sundrungu meðal Araba og ýta undir það að þeir fari að slást innbyrðis. Þess vegna er þetta hið ákjósanlegasta ástand fyrir risaveldin, sem skapast hefur nú eftir för Sadats. Út frá þessu sést að fordæming Sovétríkjanna á för Sadats stendur ekki á föstum grunni, heldur er hún enn eitt bragð sósíalheimsvaldasinnanna til að fela sitt rétta andlit. Það eru til mýmörg dæmi um sundrungarpólitík Sovétríkjanna sem sanna þetta, en verða ekki rakin hér frekar.

### Ísraelsríki þýðir stríð.

Palestínuarabar hafa stundað vopnaða frelsisbaráttu í u.þ.b. 12 ár með það að markmiði að endurheimta heimaland sitt, Palestínu, úr klóm sionista. Þeir munu ekki gefast upp fyrr en markmiðinu er náð. Ísraelsríki er árásargjarnt ríki og samkvæmt stefnu sionista skulu landamæri þess ná frá Efrat til Nílar! Sadat hefur keypt köttinn í sekknum, því raunverulegur friður mun ekki komast á fyrir botni Miðjarðarhafs fyrr en sionistaríkinu Ísrael hefur verið kollvarpað og í þess stað re reist frjálst og óháð lýðræðisríki í Palestínu.

## Kalatdlit Nunat (Grænland)

# Mótmælaaðgerðir gegn EBE

Það eru nú liðin 5 ár síðan Kalatdlit Nunat var neytt til þáttöku í Efnahagsbandalaginu. Þessa var minnst með mótmælaaðgerðum í bænum Aasiaat (Egdesminde), sem Inuit Ataqatigiit (nýstofnaður vinstriflokkur) stóð fyrir. Mótmælagangan gekk um aðalgötur bæjarins, og tóku um 100 manns þátt í henni. Eftir gönguna átti að vera fundur, þar sem fulltrúar frá Siumut og G.A.S. (Verkalýðssambandið) ætluðu að tala, en þeir hættu við á síðasta augnabliki vegna þess að þeim fannst kröfurnar á veggblöðunum sem auglýstu aðgerðina allt of harðorðar. Sem dæmi um þessar "harðorðu" kröfur má nefna: "Kalatdlit Nunatskir sjómenn- þið veiðið í hafi sem tilheyrir EBE" og "Gegn geislavirkum úrgangi". Yfirskrift mótmælaaðgerðanna var "EF-perdle" sem þýðir "Úr Efnahagsbandalaginu".

Krafan um að Kalatdlit Nunat gangi úr EBE er sjálfsögð krafa. Þegar kosið var um hvort ganga ætti í EBE fyrir 5 árum síðan, voru 70% íbúa Kalatdlit Nunat á móti inngöngu. En sem amt í Danmörku varð landið að ganga í EBE. Þar var því um að ræða algera hundsun á vilja landsmanna Fyrir grænlensku þjóðina, sem byggir afkomu sína á veiðum, hefur veran í EBE þýtt síaukna rányrkju og aukin ítök evrópsks stórauðvalds í landinu. Það er tómt mál að tala um veiðitakmarkanir eða friðanir fiskistofna, því að mati evrópska útgerðarauðvaldsins."samræmist slíkt ekki hinu heilaga bræðralagi, EBE".

Allt frá kosningunum fyrir 5 árum, hefur skrifræðisvaldið í höfuðstöðvum EBE í Brussel reynt að "kaupa" Grænlendinga til fylgis við bandalagið með auknum fjárfestingum í landinu. Sérstaklega hefur verið fjárfest í hafnarmannvirkjum og iðnaði. En grænlenska þjóðin veit sem er, að stórauðvaldið í Evrópu hefur fyrst og fremst áhuga á olíunni, námuauðæfunum og fiskimiðunum, og slíkt samræmist ekki þjóðarhagsmunum íbúa Kalatdlit Nunat. Æ fleiri raddir heyrast nú sem vilja þjóðaratkvæðagreiðslu um aðildina að EBE strax í kjölfar heimastjórnarinnar 1979. Og það eru fáir í vafa um niðurstöður slíkrar þjóðaratkvæðagreiðslu.

## „Rauður bær"...

Frh. af baksíðu

einfalt og skýrt. Á s.k. "vinstri" kanti við hlið okkar eru ekki aðrir en AB. Fylkingin hefur aldrei náð að bera sitt barr eftir að við yfirgáfum hana um árið. KSML starfaði hér all-lengi, en dó um það leyti er samtökin fóru að kalla sig "KFÍ (m-l)". Guðbrandur Magnússon, sem var forsprakkinn, er orðinn þægur borgari og farinn að bauna alls kyns glósum á sósíalista. Þá er Alþýðubandalagið eftir, sem er býsna sterkt og við höfum frekar lítið átt í höggi við það:, þeir hafa verið nokkuð "óánægðir" og "órólegir", a.m.k. frá sjónarmiði flokksforystunnar. Það var gagnlegt þegar AB-menn hér studdu þá fylkingu verkalýðsfélaga á Norðurlandi sem vann gegn ofríki og stefnu ASÍ-forystunnar á árunum '73-'75. Þá gengu þeir m.a. með okkur 1.maí gegn stéttasamvinnustefnu ASÍ-forystunnar. Nú í vor hafði AB flokksgöngu á 1.maí til stuðnings ASÍ, svo hið jákvæða er komið í skuggann. AB-menn hér eru reyndar býsna rauðir og brattir á meðan það nægir að tala um hlutina – og auðvitað eru heiðarlegir sósíalistar á meðal virkra AB-manna á Akureyri. En það sem þeir í reynd gera er að gefa AB rauðara andlit en flokkurinn á skilið, án þess að vera stéttsvikurunum í AB-forystunni neitt hættulegir. Endurskoðunarstefnan og flokkurinn er því jafn hættuleg hér og annars staðar.

Vbl.: Hvað sýnist ykkur um framtíð kommúnískrar baráttu á Akureyri?

Þ.H.: Það er bjart yfir því eins og annars staðar á Íslandi og utan þess. Okkur miðar áfram. Akureyri er iðnaðarbær, mestum hluta verkafólks er þjappað á tiltölulega fáa stóra vinnustaði. Enda er hér mikið af stéttvísu fólki, þótt fölskum verkalýðsforingjum og fölskum sósíalistum hafi nú lengi tekist að slæva baráttuna.

Við berum stíft út blaðið í hús og það er orðið þekkt í bænum. Til er það verkafólk nú þegar sem telur það málgagn sitt. Yfirleitt tekur fólk blaðinu heldur vel.

Þegar kommúnisminn festir hér rætur hjá stéttvísu verkafólki verða fljótt breytingar á ýmsum málum. Einu sinni var Akureyri kölluð "rauði bærinn", m.a. fengu kommúnistar yfir 30% atkvæða í bæjarstjórnarkosningum 1936. Ég hlakka til þess tíma þegar bærinn fær aftur þetta nafn, – segir Þórarinn að lokum.

## Fullt félagsgjald...

Frh. af forsíðu

16 ára og eldri...640 kr. pr. klst. dv.

Fyrir um það bil 10 árum var á Akranesi sami taxti fyrir unglingsstúlkur og fullorðnar konur í frystihúsinu. Verkalýðsfélag Akraness var eina félagið í landinu sem var með slíkt ákvæði í kjarasamningum. Í einum samningum ASÍ-samflotsins tókst ASÍ-forystunni að glutra þessu ákvæði niður.

Unglingarnir eru ekki fastráðnir en hafa viku uppsagnarfrest. Venjan er sú að "þeir þurfi ekki að mæta á morgun" ef verkstjóri vill losna við þá. Verkalýðsblaðið hafði samband við fiskverkunarfólk á Kirkjusandi og innti það eftir kjörum unglinga þar. Reyndist mikið vera brotið á unglingunum og þeir illa færir sakir reynsluleysis að gæta réttar síns, enda réttlausir í verkalýðsfélögunum. Fullorðna fólkið stendur ekki nægilega vörð um réttindi unglinganna. Þeir eiga heldur ekki gott með að leita til trúnaðarmannsins, þar sem hún er gift einum verkstjóranum og virkar oft sem verkstjóri sjálf.

Unglingarnir eru látnir vinna flest störf og rekið mjög á eftir þeim. Þegar eftir- og næturvinna er unnin, er ætlast til að allir vinni ef atvinnurekandinn æskir þess. Þá er venjan að fólkið þurfi að biðja um "frí" eftir kl. 17 þótt svo að skýrt ákvæði sé í samningum um að enginn sé skyldugur að vinna eftirvinnu. Þetta kemur verst niður á unglingum, því þeir eiga allt undir duttlungum verkstjórans og eru oft reknir á staðnum, þ.e. "þurfa ekki að mæta á morgun". Þeir hafa engin réttindi til að reka mál sín og leita réttar síns í verkalýðsfélögunum

Nýlega gerðist það til dæmis á Kirkjusandi, að unglingspiltar fengu ekki fulla greiðslu fyrir vinnu við útskipun (þá skal greiða samkvæmt hærri taxta). Þeir fengu þær upplýsingar hjá verkstjóra eftir mikið vafstur, að þeir yrðu látnir skrifa á kortin sín á skrifstofunni, annars fengju þeir ekkert. Þeir skyldu <u>muna þetta næst,</u> annars fengju þeir ekkert!

Greinilegt er að verkafólk þarf að taka höndum saman og verja rétt allra á hverjum vinnustað, einnig unglinganna. Blaðið hvetur verkafólk til að krefjast þess í verkalýðsfélögunum sínum, að unglingar fái <u>fulla aðild að félögunum ásamt öllum réttindum, svo og sömu laun fyrir sömu vinnu.</u> Þá er algert frumskilyrði að velja trúnaðarmann fyrir verkalýðsfélögin á vinnustöðunum, t.d. er enginn slíkur á Kirkjusandi.

## Útlendingar...

Frh. af forsíðu

– <u>Vita menn hvað bónusinn í raun og veru er?</u>

– Ég held ekki. Það komu sérfræðingar og fulltrúar frá verkalýðsfélaginu og sögðu að þetta væri mjög gott og flestir trúa því, þó að þeir finni að bónusinn sé meira púl og lítið meira í kaup. Við fengum að kynna okkur bónuskerfið í sumarfríinu og svo var það sett á til reynslu. Það verður efalaust samþykkt að halda því áfram – sérfræðingarnir koma og fulltrúar verkalýðsfélagsins, og segja okkur að samþykkja. Flestir gera það, hugsa ég.

– <u>Var samþykkt umyrðalaust að reyna bónuskerfið?</u>

– Nei, við vorum tveir útlendingar sem greiddum atkvæði á móti því. Það voru ef til vill fleiri sem voru á móti því, en íslensku verkamennirnir segja ekki álit sitt. Ég held samt að þeir viti nákvæmlega hvað þeir eigi að segja, en þeir hafa bara aldrei lært að tala á fundum. Við lærum þetta í skólum í heimalandi mínu og er svo víða erlendis.

– <u>Þú hefur starfað víðar en í verksmiðjum?</u>

### ILLA FARIÐ MEÐ ÚTLENDINGA

– Jú, ég hef verið talsvert á sjónum. Í verstöðvum úti á landi og á bátum frá Reykjavík. Það er bara á sjónum sem ég hefi fundið fyrir því að ekki er gott að vera útlendingur á Íslandi. Sjómennirnir eru ágætir en útgerðarmennirnir eru slæmir, þeir gera ekki endanlega upp við útlenda verkamenn. Ég á ennþá stórar upphæðir inni hjá tveimur útgerðarmönnum. Ég lét Sjómannafélagið gera í málinu og í það var settur lögfræðingur, en samt hefi ég ekkert heyrt í þrjú ár. Ég er að verða búinn að gleyma þessum peningum!

– <u>Heldur þú að svipuð tilfelli séu algeng varðandi útlenda sjómenn á Íslandi?</u>

– Ég þekki fleiri dæmi. T.d. voru þrír spánverjar á sama bátnum. Einn þeirra slasaðist, lenti með hendina í spili og þríbraut handlegginn. Hann hafði ekki atvinnuleyfi og fékk þess vegna ekkert út úr tryggingum. Hann vildi fá gert upp strax við útgerðina en hún neitaði. Þá sögðu allir spánverjarnir upp störfum og útgerðarmaðurinn neitaði að borga þeim það sem þeir áttu inni hjá útgerðinni. Þeir höfðu ekkert húsnæði á staðnum og því var farið illa með þessa menn. Þetta er ef til vill ekki einkennandi en svona er samt til. Það er farið illa með okkur útlendinga þegar vitað er að við erum ekki klárir á öllum atriðum.

## Fyrri grein um alþýðumenningu á Íslandi

# Alþýðulist er beitt vopn

Verkalýðsstéttin og önnur alþýða á Íslandi á sér mikinn menningararf að verja og viðhalda. Það er mikil firra, sem oftlega er sagt, að menning fyrri tíma hafi eingöngu verið menning fámennrar yfirstéttar, höfðingja og embættismanna erlends konungsvalds. Menning almúgafjöldans var þá sem nú til, en hún hefur alltaf verið undirokuð og bæld undir þá yfirstéttamenningu, sem ríkjandi hefur verið á hverjum tíma.

Í bókmenntum íslenskrar alþýðu er til mikið safn baráttukvæða og frásagna, sem lýsa baráttu almúgans við óvægið yfirvald. Þessi listiðkan færði alþýðunni baráttuglóð og oft varð lítil vísa til þess að kveikja baráttuneistann.

Í grein þessari verður fjallað um alþýðukveðskapinn frá upphafi til okkar tíma. Síðar mun Verkalýðsblaðið fjalla um alþýðumenningu okkar tíma - hvernig menning verkalýðs og vinnandi alþýðu er undirokuð og færð í borgaralegan auðvaldsbúning, til þess að firra hana því innihaldi sem gefur henni varanlegt gildi fyrir alþýðuna.

Í sérhverju stéttaþjóðfélagi geysar stéttabarátta. Þetta er barátta milli kúgara og kúgaðra. Hún tekur á sig mismunandi form eftir gerð samfélagsins. Við sjáum líka stéttabaráttuna í ljóðum og listum alþýðunnar á öllu því tímabili, sem við eigum skrifaðar heimildir um.

Íslendingasögurnar eru alls ekki sneyddar stéttabaráttu. Í Njálu segir svo í Darraðarljóði:

Þeir munu lýðir
löndum ráða,
er útskaga
áðr of byggðu.

Kveð eg ríkan gram
ráðinn dauða.
Nú er fyrir oddum
jarlmaður hniginn.

### Nýlendan Ísland.

Baráttan gegn danska nýlenduveldinu var oft blóðug og hörð. Þegar siðskiptin urðu lagði danski kóngurinn undir sig allar klaustureignir, biskupaeignir og miklar aðrar eignir á Íslandi. Meira en sjötti hluti allra jarðeigna urðu konungseign á þennan hátt. Í viðbót höfðu danskir höfuðsmenn kastað eign sinni á allar verbúðir við Faxaflóa og á suðurströndinni. Það er gegn þessu valdi að íslenska alþýðan brynjar sig með ljóðum, söngvum og sögum - hún brynjar sig alþýðumenningu og notar hana sem vopn í þjóðfrelsisbaráttunni. Jón Arason yrkir svona, þegar danska kóngavaldið sótti að honum um leið og það tróð nýjum siðum upp á alþýðuna og hrifsaði eigur landsmanna til sín.:

Undarlegt er Ísland
ef enginn réttir þess stétt.
Vondslega hefur oss veröldin
blekkt.
vélað og tælt oss nógu frekt,
ef ég skal dæmdur af danskri slekt
og deyja svo fyrir kóngsins mekt.

Á síðari hluta 18 aldar, þegar einokunarverslunin er að syngja síðustu tóna píningarhljómkviðu sinnar, fara hugmyndir og baráttuljóð að berast til Íslands erlendis frá. Franska byltingin 1789-95 hreyfði hug þeirra sem börðust fyrir frjálsu Íslandi. Magnús Stephensen lýkur ljóði sínu um "Bergmál frönsku byltingarinnar 1789-95 " svona:

"En þegar kemur til annarra efna:
óskum að frelsi þitt krýni nú hér
Ísland bundið
þungt okið undir.
Ó, að því brátt sé af hrundið."

### París 1848 - bylting.

Ómurinn af fyrstu tilraun verkalýðs og vinnandi almúgans til að kasta af sér stéttarokinu barst til Íslands og kveikti enn baráttuglóð. Gísli Brynjúlfsson orti um "Júníbardagann í Parísarborg 23-26 júní 1848":

Svo hófst víg, er veröld eigi
vön þó stórum heiftum sé,
áður leit á einum degi,
uns að velli lýður hné,
háð svo enn í einni borg,
- öll í blóði flóðu torg -
illa Mammons ánauð við
og við sjálfra þeirra lið,
sem með verslun, okri, auð
armir safna af bræðra nauð.

Geystist fram í fjarskastyr
Frakka borgarlýður hættin.
Þess ég hefi þúsund vættin,
að þjóðar múgur aldrei fyr
hafði slíkan hermanns sið
að herja drottnar skelfdust við.
Verkalýð ei var að frýja
vits né hugar, - oddaklið
vildi heldur hafa en flýja
harðsnúnasta drengja lið:

..............

Svo fór víg, á vorri öld
er var hið fyrsta heims með
þjóðum,
þegar reyndu að gjalda gjöld
gullmæringum seimafróðum
verkamenn, - en verða má
að vakni enn þaðan hildarþrá!

..............

Í lok 19 aldar var baráttan fyrir þjóðfrelsinu orðin meðvituð meðal alþýðunnar. Skáldin lögðu sinn skerf til baráttunnar. Ljóð þeirra urðu fleyg. Þau voru oft notuð í stað langrar ræðu eða til beinskeyttra andsvara. Með baráttuljóðunum mátti virkja fjöldann til mikilla dáða.

Steingrímur Thorsteinsson yrkir í Vorhvöt:

Nú vakna þú Ísland, við vonsælan
glaum
af vorbylgjum tímans á djúpi.
Byrg eyrun ei lengur fyrir
aldanna straum
en af léttu deyfðanna hjúpi
og drag þér af augum hvert
dapurlegt ský,
sem dylur þér heiminn og
fremdarljós ný.

En bót er oss heitið, ef bilar ei dáð.
Af beisku hið sæta má spretta.
Af skaða vér nemum hin nýtustu ráð.
Oss neyðin skal kenna það rétta.
Og jafnvel úr hlekkjunum sjóða
má sverð
í sannleiks og frelsisins
þjónustugerð.

### Alþýðumenning undir oki auðvaldsskipulagsins.

Skeið auðvaldsskipulagsins er runnið upp hérlendis í lok síðustu aldar. Alþýðumenningin heldur áfram að þróast við nýjar þjóðfélagsaðstæður og nýtt lið listamanna kemur til sögunnar. Þetta nýja lið framsækinna og byltingarsinnaðra skálda, rithöfunda og annara listamanna er mótað af framsæknum og byltingarsinnuðum hugmyndum verkalýðsstéttarinnar. Þessir listamenn skara fram úr af því að þeir eru listrænir þjónar þeirrar stéttar sem skapar allt og verður að erfa allt. Þess vegna er alþýðumenningin meira okuð nú en áður. Hún er beittari og hættulegri - hún ógnar undirstöðu stéttasamfélagsins. Það afl sem stendur að baki alþýðumenningunni er nú sterkara en nokkru sinni. Þetta afl er samt sem áður ekki virkt. Það verður að virkjast. Til þess að svo geti orðið og til þess að ryðja alþýðumenningu braut verður verkalýðsstéttin að herða framsæknasta kjarna sinn og byggja raunverulegan kommúnískan verkalýðsflokk. Undir forystu EIK(m-l) er smíði slíks flokks hafin. EIK(m-l) verja megin afli sínu í flokksbygginguna. Þannig þjóna EIK(m-l) verkalýðsstéttinni og vinnandi alþýðu, einnig á sviði menningarinnar.

Í síðari hluta þessarar greinar verður fjallað um sögu alþýðumenningarinnar undir oki auðvaldsskipulagsins.

# Klofningur...

Frh. af baksíðu

forysta rekaldsins á alþingisframboð í öllum kjördæmum í vor.. Hugmyndin er að mynda "kosningabandalag", eða eins og forystan segir:

"Slíkt kosningabandalag gæti verið byggt þannig upp, að aðilar þess sameinuðust um nokkur meginatriði, t.d. kröfur til verndunar lýðréttindum, kjara- og efnahagsmálakröfur og að síðustu kröfur, er snerta baráttuna gegn heimsvaldastefnunni. Í bandalag með þessu sniði er auðvitað nauðsynlegt að fá einhverja nokkuð þekkta einstaklinga sem væru þá ekki bundnir samstarfinu á annan hátt en þann, að þeir styddu pólitíska grundvöllinn. Að öðru leyti væru þeir frjálsir að því að túlka hann á sinn hátt, svo fremi að þeir brjóti ekki í bága við grundvöllinn".

Af þessu má glögglega sjá lágkúrupólitík forystunnar. Hugmyndin er að veiða atkvæði út á andlit en ekki stefnu, rétt eins og hver og einn borgaraflokkur gerir. Hver veit nema KFÍ-hópurinn stilli fallistunum úr Alþýðuflokksprófkjörunum upp við hlið Kristjáns Guðlaugssonar, trúbadors, í vor.

### 17 SÍÐNA GAGNRÝNISPLAGG

- Hafið þið sett fram skipulega gagnrýni á "flokkinn"?

- Já, við tókum saman helstu gagnrýnisatriðin og gerðum 17 síðna plagg sem dreift var til félaga hópsins. Forystan varð auðvitað æf yfir því og svaraði gagnrýninni ekki pólitískt fremur en fyrri daginn. Hins vegar fengum við það góðan hljómgrunn meðal margra félaga, að forystan þorði ekki að reka okkur. Andstaðan gegn forystunni er því ekki niður lögð þó að við séum farnir og því má eiga von á frekari tíðindum úr herbúðum "flokksins" áður en langt um líður. Að öðru leyti hvetjum við alla heiðarlega félaga KFÍ-hópsins til að taka afstöðu til gagnrýni okkar og sérstaklega kynna sér gagnrýni EIK(m-l) á hópinn, bæði í Verkalýðsblaðinu, Rauðliðanum og víðar. Okkar mat er það nú, að við hefðum aldrei átt í þennan "flokk" að ganga og að vera okkar þar hafi aðeins orðið til að gefa hópnum marx-lenínískara yfirbragð en hann á skilið. Eins og Vbl. hefur greint frá, erum við ekki hinir fyrstu sem komumst að raun um þetta - og við vitum að fleiri félagar munu komast að sömu niðurstöðu og yfirgefa hið sökkvandi skip.

### "LIFI EIK(m-l)"!

- Að lokum, hver er ykkar afstaða til pólitísks starfs í framtíðinni?

- Sem svar við þessari spurningu er best að birta hér niðurlag úrsagnarbréfsins okkar til "flokksins". Við það höfum við engu að bæta:

"Við álítum að stuðningur og starf fyrir EIK(m-l) sé mun brýnna og árangursríkara verkefni en að halda áfram að munnhöggvast við forystu og einstaka félaga "KFÍ/ML".

Við lítum svo á að áframhaldandi vera marx-lenínista innan flokksins verði eingöngu til þess að gefa honum marx-lenínískara yfirbragð en hann á skilið án þess að slíkt leiði nokkurn tíma til fullnægjandi uppgjörs við endurskoðunarstefnuna. Við skorum því á alla félaga sem reynt hafa að breyta flokknum til betri vegar að láta hann sigla sinn sjó en taka þess í stað virkan þátt í uppbyggingu EIK(m-l)".











Á myndinni til vinstri er Albert Einarsson ritstjóri Verkalýðsblaðsins, sem hélt aðalræðu dagsins. Í miðið syngja fundarmenn fjöldasöng. Til hægri er gestur fundarins frá Færeyjum, Daniel J. Jacobsen, en hann flutti ávarp um baráttu Færeyinga fyrir sjálfstæði. Myndir: Verkalýðsblaðið.

# Glæsilegur baráttufundur 1.desember

Baráttunefnd 1. des. hélt fund í Tjarnarbúð að kvöldi 1. des. og var hann sóttur af fjölmenni. Um 220 manns voru á sjálfum fundinum og 150 manns voru á dansleik að fundi loknum. Var stemming á fundinum frábær og boðskap hans mjög vel tekið. Söfnuðust tugir þúsunda króna meðal fundarmanna til styrktar 1. des. starfinu. Þrátt fyrir að kostnaður allur vegna aðgerðanna hafi orðið mikill, reyndist vera afgangur af fénu þegar upp var staðið og eru uppi hugmyndir um að nota peningana til að kosta útgáfu á ræðunum sem fluttar voru á fundinum.

Guðmundur Sæmundsson úr framkvæmdanefnd Baráttunefndar setti samkomuna og stjórnaði henni. Lýsti hann því starfi sem félagar inntu af hendi í október og nóvember og lagði áherslu á að árangurinn hafi sýnt sig, þar sem Tjarnarbúð hafi sprungið utan af fundargestum! Hann sagði að þessi samkoma væri þó aðeins byrjun á starfi að endurreisn 1. des. sem baráttudags alþýðu gegn erlendri ásælni og fyrir raunverulegu sjálfræði Íslands.

Albert Einarsson, ritstjóri Verkalýðsblaðsins flutti aðalræðu dagsins og rakti fullveldisbaráttuna og sérstaklega hvaða hættur steðjuðu nú að fullveldi Íslands. Hann nefndi stöðugt meiri erlendar fjárfestingar á Íslandi, t.d. álverið, kísilverksmiðjuna í Mývatnssveit, járnblendiverksmiðjuna og hugsanlegar álverksmiðjur á Norðurlandi og víðar. Hann nefndi rányrkju auðvaldsins á fiskistofnunum við Ísland og baráttu Efnahagsbandalagsins og stórveldanna gegn útfærslu fiskveiðilögsögunnar. Hann nefndi heimsástandið og lýsti vaxandi vígbúnaði risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, og óhjákvæmilegri heimsstyrjöld þeirra í millum. Í slíkum ófriði yrði Ísland örugglega hernumið af öðru risaveldinu og þá dygði ekki annað en vopnuð frelsisbarátta alþýðu með kommúnistaflokk í broddi fylkingar - gegn heimsvaldasinnum og íslenskum leppum þeirra. Aðeins þannig yrði fullveldi landsins varið á styrjaldartímum.

Guðmundur Þorsteinsson, formaður Grænlandsvinafélagsins INUIT, flutti ávarp og sagði frá frelsisbaráttu Grænlendinga gegn dönsku nýlendukúgurunum og öðrum heimsvaldasinnum. Fyrsta árangursríka verkfall grænlensks verkalýðs er nýlega afstaðið og lyktaði með algerum sigri verkafólksins. Guðmundur sagði þetta m.a. sýna að sjálfstæðisvitund grænlenskrar alþýðu hafi eflst mjög og boðaði það erfiða tíma fyrir heimsvaldastefnuna. Daníel Jacobsson, frá Oyggjaframa (marx-leninista) í Færeyjum, rakti baráttu færeyskrar alþýðu gegn heimsvaldastefnunni og fyrir fullveldi. Hann sagði að ef með þyrfti, þá myndi alþýða í Færeyjum örugglega grípa til vopna til að slíta fjötra nýlenduoksins og leggja drögin að alþýðulýðveldi í Færeyjum.

Það má nefna að tveir félagar frumfluttu kvæðaleikinn "Tröllaslag hinn nýja", sem fjallar um baráttu risaveldanna um heimsyfirráð. Áhorfendur í salnum tóku þátt í flutningnum og réðu niðurlögum beggja risaveldanna í lokin!

Einnig var haldið uppboð á ýmsum eigulegum munum og að lokum var stiginn dans við harmónikkuundirleik.

EIK(m-l) studdi aðgerðir Baráttunefndar 1. des. og félagar samtakanna og stuðningsfólk leiddu starf hennar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2000
1/2 árs áskrift: kr. 1000
Til útlanda: kr. 3500
Stuðningsáskrift: kr. 4000
ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200 - 9



# Gagn eða bara gaman?


Pétur Gunnarsson. (Mynd:Verkalýðsblaðið)

Textar: Pétur Gunnarsson.
Tónlist: Leifur Hauksson og Valgeir Guðjónsson.
Flytjendur: Hljómsveitin "Hrekkjusvín" (fólk úr Spilverki þjóðanna o.fl.).
Útgefandi: Gagn og gaman.

GÓÐ POPPTÓNLIST

Lögin á plötunni eru líflleg og hugmyndarík dægurlög og ég var fljótur að hrífast af mörgum þeirra. Þetta er hressilegri tónlist en það sem Spilverk þjóðanna hefur látið frá sér fara og gæti verið prýðileg umgjörð um gott innihald. Lögin koma fólki í gott skap og ná jafnvel að gera mann sáttan við lífið og tilveruna eins og hún er. Tvíeggjað! Mörg lögin er hægt að hlusta á aftur og aftur án þess að verða leiður á þeim. Mjög tvíeggjað! Hvers vegna? Jú, það fer eftir boðskapnum sem tónlistin ásamt textanum flytur. Sé hann pólitískt framsækinn eru þetta allt miklir kostir. Sé hann afturhaldssamur eru þetta hinir verstu gallar. Góð list (listrænt séð) með afturhaldsboðskap er hið versta mein. Hún leggst á eitt með burgeisunum við að undiroka alþýðuna, arðræna verkalýð og lengja lífdaga auðvaldsskipulagsins með öllum hörmungum þess, stríði og öryggi.

Sé boðskapurinn afturhaldssamur, þá fer best á því að tónlistin sé léleg að enginn venjulegur maður endist til að hlusta á hana. Þannig virðist það hafa verið með Kvöldfréttir, fyrstu plötu Gagns og gamans, þar sem Olga Guðrún syngur ljóð og lög Ólafs Hauks Símonarsonar. Sú afskræming sósíalisma og fleiri góðra hluta, sem þar er hnoðað saman í ljóð við lítt skemmtileg lög náði eyrum fárra, af skiljanlegum ástæðum. En á nýjustu plötunni, "Lög unga fólksins", sem hér skal gerð að umtalsefni, kveður við nýjan og hressilegri tón. En hvers konar boðskap flytur þá þessi plata?

HVAÐ SEGJA TEXTARNIR?

Ég tel víst að það hafi vakað fyrir Pétri Gunnarssyni að gera framsækna texta, en því miður er útkoman á annan veg. Pétur er allan tímann eins og köttur í kring um heitan graut. Megnið af textunum er merkingarlaust bull, en einstaka atriði innan um eru örlítið í ætt við framsækna pólitík, þ.e. loðnar og sakleysislegar athugasemdir og spurningar án svara. Í flestum tilfellum er hér um minni háttar atriði að ræða í stéttabaráttu jafnt ungra sem gamalla úr verkalýðsstétt. En það sem verra er, lítið sem ekkert er gert til að tengja öll þessi brot heildinni, sem þau tilheyra. Skulu hér tilfærð dæmi:

1. Afinn segir krökkunum grobbsögur af sjálfum sér. Krakkarnir sjá í gegn um lygar hans og rísa öndverð gegn honum. Boðskapurinn: Krakkar! Varið ykkur á afa ykkar, hann er versti lygalaupur og þorpari. Ekkert er gert til að fegra hugmyndir þær sem gamli maðurinn býður krökkunum upp á, en þær eru augljóslega hluti af hinum borgaralega áróðri (bjargvætturinn Tarzan, svört og ógurleg Afríka með mannætum o.s.frv.).

2. Barnið hvetur móður sína til að kaupa ekki bíl, heldur reiðhjól og ferðast með strætisvagni. Er þetta krafa dagsins? Getur Pétur sett sig inn í aðstæður bíllausra foreldra með eitt eða fleiri börn, sem þarf að flytja úr einum bæjarhluta í annan í dagvistun og fara svo til vinnu? Ef bæjarskipulag og almenningsvagnakerfið miðaðist við þarfir fólksins en ekki arðsemissjónarmið auðvaldsins, þá væri þetta réttmæt krafa. En krafa dagsins er eitthvað á þessa leið: Gott almenningsvagnakerfi og dagheimili fyrir öll börn við vinnustað eða heimili!

3. Barnið vaknar upp og þá er fjörugt partí í húsinu og mamma og pabbi hátt uppi. Hér er lýst vandamáli sem hrjáir margt fólk - áfengisbölinu. En ekki er leitað skýringa á því hvers vegna foreldrarnir drekka. Boðskapurinn verður því: "Krakkar, foreldrar ykkar eru viðsjárverð".

4. Inn á grundvallaratriðin arðrán og vinnuþrælkun er komið á plötunni. Þetta er þó ekki tengt auðvaldsskipulaginu og á engan hátt gefið í skyn að alþýðan eigi sér færa leið út úr þessu feni - að sósíalískt þjóðskipulag bjóði upp á annað og betra. Boðskapinn mætti orða þannig: "hættu að vinna og gerstu slæpingi eða bóhem, þ.e.a.s. ef þú getur ekki orðið bissnessmaður, sem er það eftirsóknarverðasta. Vinna er bara stress og vitleysa, sem gefur ekkert í aðra hönd". Það rétta væri að upphefja vinnuna og vinnufólkið sem skapendur allra nauðsynja og auðæfa um leið og bent væri á að verkafólk eigi að fá yfirráðarétt yfir afurðum vinnu sinnar og réttmætar kaupkröfur og valdbyltingu sem sjálfsagðan hlut.

5. Í laginu "Sæmi rokk" er fjallað um drykkjuskap unglinga. En það vandamál hefur lítið með stéttarkúgun að gera, ef marka má textann, heldur er fullorðna fólkið, (gamla fólkið!), að sigla skútunni í strand, eða hvað?

Það ætti að vera nokkuð ljóst, að unglingar koma saman og drekka og ólátast vegna þess að þau eru undirokuð og bæld í skólunum og annars staðar í auðvaldsþjóðfélaginu. Hin mikla starfsorka og sköpunargleði þeirra fær ekki að njóta sín, heldur er reynt að troða í þau einhverju sem þeim kemur ekkert við. Áhuga og þekkingarþorsta um þau sjálf og þjóðfélagið er svalað með þurrum og leiðinlegum lygum um þjóðfélagið og sögu þess, sem þau sjá að ekki fær staðist. Unglingarnir svara kúguninni með því að vera stöðugt að gera uppreisn, en þeir megna ekki að beina spjótunum að raunverulegum óvinum sínum, fyrr en þau hafa eignast sín kommúnísku æskulýðssamtök, sem marx-lenínistar leiða. Í dag bitnar uppreisn þeirra allt of mikið á foreldrum, kennurum og ekki síst þeim sjálfum.

En hvað leggur Pétur Gunnarsson til málanna? Ef ég skil rétt, þá er það víst löggan sem á að ráða bót á vandamálinu!

Textinn um "Sæma rokk" er ekki sá versti hvað snertir þrugl og vitleysu, flestir hinir eru álíka að "gæðum". Öllu skárri eru þó ef til vill "Krómkarlar" og "Gagn og gaman", þótt pólitíkin sé einnig þar loðin og óljós.

HVERNIG ER LJÓÐLISTIN?

Þótt ljóðrænt form textanna sé víða hroðvirknislegt og óvandað, þá er það hreinasta afbragð borið saman við innihaldið. Pétur notar talsvert hugmyndir, orð og orðatiltæki sem höfða til þeirra sem ólust upp í Reykjavík fyrir um 20 árum síðan, um leið og hann sjálfur. Ég dreg í efa að hann höfði að sama skapi til æskunnar sem nú er að vaxa úr grasi.

Textarnir eru oft hnyttnir og oft dregnar upp skemmtilegar myndir. En þessa góðu eiginleika sína nýtir Pétur ekki markvisst í baráttunni.

Það er kostur að hafa textana í gamansömum tón, ef þeir eiga að ná eyrum fólks og slíkt á að vera hægt að gera með markvissan pólitískan boðskap. En ég tel börn og unglinga ekki vera eins mikla "flippara" og textarnir gera ráð fyrir. Börn og unglingar eru líka hugsandi fólk, en fá því miður allt of fá tækifæri til að þroska þá eiginleika. "Lög unga fólksins" hjálpa þar lítið.

(Í næsta blaði verður birt niðurlag greinarinnar sem þó er aðeins lauslega tengt þessum hluta. Þar er almennt fjallað um tengsl pólitíkur og listar og sérstakur kafli fjallar um útgáfufyrirbærið "Gagn og gaman".).

L.

## Klofningur í "Kommúnistaflokknum":

# Lýsa yfir stuðningi við EIK(m-l)

Enn einu sinni stendur hin endurskoðunarsinnaða forysta "Kommúnistaflokks Íslands/ML" andspænis alvarlegum klofningi í "flokknum", a.m.k. í þriðja sinn á þessu ári! Fyrstu helgi desember gerðist það að þrír félagar í "KFÍ/ML" undirrituðu bréf til forystu og félaga "flokksins", fordæmdu endurskoðunarstefnu forystuklíkunnar og lýstu yfir úrsögn sinni. Jafnframt lýstu þessir félagar fullum stuðningi við baráttu EIK(m-l) fyrir uppbyggingu nýs verkalýðsflokks - marx-lenínísks kommúnistaflokks!

Verkalýðsblaðið hitti þremenningana að máli og spurði þá um aðdragandann að úrsögn þeirra úr "KFÍ/ML".

-Aðdragandinn er langur, hann má rekja allt til "stóra klofningsins" í "KFÍ/ML" um síðustu áramót, en eftir það fórum við að sjá smám saman í gegn um svikavef forystuklíkunnar. Okkur hefur verið mikill styrkur af því starfi sem EIK(m-l) hafa innt af hendi í baráttunni gegn "KFÍ/ML" og gagnrýni EIK(m-l) á hópinn hefur sýnt sig vera rétt, enda alfarið byggð á marx-lenínismanum/kenningum Mao Tsetungs. Í úrsagnarbréfinu drögum við saman í tvö meginatriði mat okkar á "flokknum", eða KFÍ-hópnum eins og ætti að kalla hann.

"Við teljum að flokkurinn - þrátt fyrir frómar sameiningaryfirlýsingar sínar - sé að vinna sundrungarstarf í íslensku kommúnistahreyfingunni með eigin tregðu gegn uppgjöri við endurskoðunarstefnu.

Við álítum að vegna þess að aldrei hefur verið gert upp á fullnægjandi hátt við fyrri endurskoðunarvillur sé flokknum ókleyft að fóta sig í baráttunni á grundvelli marx-lenínismans".

- Hvað um starf KFÍ-hópsins almennt?

- Starfinu í sumar er best lýst með orðum framkvæmdarnefndar "flokksins" þegar hún metur starfið þannig:

"Í sumar hefur ríkt deyfð yfir starfsemi Kommúnistaflokksins, sellur hafa verið nær eða algerlega óvirkar, námsstarf með allra minnsta móti og allar fræðilegar umræður hafa annað hvort ekki hafist fyrir alvöru eða koðnað niður".

Starfið er þannig í molum og einangrað við Reykjavík. Félögum fækkar stöðugt, "fjöldastarfið" er einangrað við Samtök herstöðvaandstæðinga og Stéttabaráttuna, þann auma snepil, o.s.frv. Þrátt fyrir þetta stefnir

Frh. á bls.7

## EIK(m-l) á Akureyri:

# Hér verður "rauður bær" á ný

Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) hafa um skeið haft deild á Akureyri og hafa félagar unnið að ýmsum baráttumálum þar í bæ. Verkalýðsblaðið hafði tal af einum félaga Akureyrardeildar, Þórarni Hjartarsyni, iðnnema, og bað hann fyrst rekja í stuttu máli sögu deildarinnar.

Þ.H: Ak-deild er jafn gömul samtökunum, réttara sagt jafn ung. Árin 1973 og 74 starfaði hér deild í Fyldingunni, sem nánast í heild gekk út við klofninginn í Fylkingunni og var með í að stofna EIK(m-l). Kjarninn úr því liði hefur dugað og eflst með EIK(m-l) þótt lítið af því sé á Akureyri lengur, enda var það mikið til skólafólk. Annars hefur EIK-hópurinn hér byggt sig upp jafnt og þétt, þó með undantekningum, þegar við höfum ekki beitt lenínískum aðferðum við verkið.

Eins og samtökin öll erum við á því stigi, að náms- og áróðursstarf er aðalatriði. Framan af var aðalatriðið fyrir EIK-arana hér, að treysta sjálfa sig í fræðikenningu marx-lenínismans og læra til verka sem kommúnistar og raunverulegir verkalýðssinnar. Útkoman er sprækur hópur af baráttufúsum kommúnistum, sem annars vegar reka áróður útávið, fyrst og fremst með Verkalýðsblaðinu og hins vegar tekur þátt í hinni daglegu stéttabaráttu eftir því sem bolmagnið leyfir. Við leggjum áherslu á að fá til starfa ungt verkafólk búsett í bænum, menntskælingar t.d. eru dálítið óstöðugur kraftur sem vill fljóta burt í vorleysingunum. Ungur aldur er einkenni á hópnum, það er reyndar sígilt einkenni á kommúnískri hreyfingu á byrjunarstigi.

Vbl.: Hver eru helstu baráttumálin í stéttabaráttunni á Akureyri?

Þ.H.: Við getum sagt að baráttan sé aðallega háð á tvennum vígstöðvum. Annars vegar við atvinnurekendur og ríkisvaldið. Hins vegar við falska verkalýðsforystu, sem heldur verkalýðsbaráttunni niðri með skrifræðisaðferðum og samvinnu við atvinnurekendur. Helstu afturhaldsvígin í verkalýðshreyfingunni hér eru Eining og Iðja, stærstu félögin. Formaður Einingar er í stjórn Útgerðarfélagsins og varaformaðurinn í kjaranefnd bæjarins svo dæmi séu nefnd.

Af baráttumálum núna get ég, auk almennra kjarasamninga, nefnt baráttu starfsstúlkna á Kristnesi gegn samningsbrotum og ýmsum vondum vinnuskilmálum, óánægju verkafólks hjá Útgerðarfélaginu með mismunun, óhagstæð ráðningakjör og léleg laun. Í báðum þessum málum fer Jón Einingarformaður með hlutverk úrtölumannsins. Þá má nefna óánægju með ótækt ástand í dagvistunarmálum, og starf við að byggja upp iðnnemafélagið á grundvelli baráttustefnu. Við reynum að hafa afskipti af þessum málum, ýmist með beinni þátttöku eða með skrifum í Verkalýðsblaðið og dreifiritum.

Vbl.: Hvernig er háttað baráttunni gegn falssósíalistum úr Alþýðubandalaginu og öðrum "vinstri" samtökum?

Þ.H.: Það er nú tiltölulega

Frh. á bls.6